# Rimur

af

# Tistrani og Indiönu.

Orktar af

**Sigurdi Breidfjörd.**



Kaupmannahøfn.

Prentadar hjá Bókþrykkjara S. L. Møller

1831.

Þad hefir verid venja hér
Voru á Isafiordi,
Fagur=gylltu Fjølnis kér
Ad fylla á Sónar bordi.

Arni Bødvarsson.

## Háttvyrdtu Landsmenn!

Í þeirri von ad ykkur ekki mundi misþókknast, hof- um vid undirskrifadir rádist í, ad láta prenta á okk- ar kostnad Rímur þessar, ad feingnu leyfi Skáldsins, sem ekki kvadst siálfur vera fær um ad koma þessu til vegar, vegna annara útgipta sinna; hvatti okkur einkanlega til þessa, bædi alkunn námfýsi ydar kiæru Landsmenn! og snoturleiki Rímnanna.

Þess verdur ad géta, ad ekki gátum vid látid prenta hinar tvennar Rímurnar er Skáldid hafdi heitid áskrifendum sínum, nefnilega: Svoldar- og Jómsvíkinga-Rímur, líka meintum vér, ad fleiri yrdu til ad kaupa þessar Rímur einstakar, sem nema litlu verdi, heldur enn þrennar til samans, sem hefdu ordid því dýrari; en fái þetta Rímna-kver géda vidtöku hjá ykkur, og vid sjáum okkur skadlausa, gét-

ur ſkéd, ad við ráðumſt til að láta prenta hinar tvenn-
ar ſeinnameir, og helzt ef þeir ſem vildu kaupa þær
gjæſu okkur það til vitundar.

Viljum vér nú vinſamlegaſt mælaſt til þeſs af
ykkur, kjæru Landar! að þér eins fúslega meðtakið bæk-
línginn frá okkar hendi, eins og þó ykkur væri hann
tilſendur frá ſjálfu Skáldinu. Þeir ſem taka 10
Exemplör og ſtanda inni fyrir andvyrði þeirra, fá
hið 11ta ókeypis.

Ykkar þénuſtuſkyldugir vinir og Landsmenn.

Skrifað í Kaupmannahöfn, þann 1ta Febr.
1831.

Teitur Finnbogaſon.
Dýralæknir.

Haldór Þórdarſon.
Gjörtlari.

Helgi Helgaſon.
Bókþrykkjaraſveinn.

## Fyrsta Ríma.

1. Draumum eyda dýr og menn,
Dagsins fegurd unna,
Gyllir heidar allar enn
Yndislega sunna.
2. Vakinn grunda vil eg þá
Voga kíla sledann,
Mér ólundin flæmist frá,
Fjandans til, á medan.
3. Yfir heima læt eg lóð
Lángbards sveima fugla,
Sorgum gleimi gérdur rjóð
Glóda reimar hugla.
4. Vidjum dísin kvæda kjær
Krapta lána vildi
Mér, svo vísur vandi þær
Vatna mána Hildi.
5. Láttu glædast vinskap vorn,
Vyrdstu rædu' ad stydja
Sólar hæda meidma morn
Máttug kvæda gydja!

6. Eingan módinn ófundar
   Í andar slód eg leidi
   Þó hinir ljóda hofundar
   Hrafna-ódinn beidi.
7. Ur bodnar keitu ad signa sig,
   Sér til gjæda þægda.
   Eg vil heita á eina þig
   Íbúd fræda nægda!
8. Því eg einatt uppá þig
   Augum skapa horfi
   Skøgul greina skipulig!
   Skjærri japa torfi.
9. Mér er vandi mjøg á hønd,
   Minn fær andi hita,
   Keilu landa løga strønd
   Ljód kvedandi ad rita.
10. Þægri senda þjód eg fer,
    Þó í vana brøgum,
    Aldrei kénda ádur hér
    Eina af Dana søgum.
11. Vertu kyrja hródrar! hjá,
    Heiløg, safni ljóda;
    Eg vil byrja þáttinn þá
    Í þínu nafni góda.

---

12. Tímann sama sem um kved
Sæmdur ránar eldi
Audnu tamur Alfons réd
Öllu Spánar veldi.
13. Hvedrúngs bóna hildi á
Hann, er þjónar sóminn,
Hét Tormóna handa smá,
Hún var fróna blóminn.
14. Unni hreinu vísi vel
Veitir speigils tjarna;
Helzt til meina' eg hjónum tel,
Hún fékk eigi barna.
15. Þjódin kunni kristna trú
Krónud æru geingi,
Kóngi unni sínum sú
Sveitin kjæra leingi.
16. Ærid þúnga ánaud þó
Öldin mæta kénndi:
Konúngs únga drottníng dó
Døglíng grætur kvendi.
17. Þánka sýki þjódin fann;
Þad ei efnin bætti
Ad einginn ríkid eptir hann
Erfa hefnir mætti.

18. Hét því vinum- lundur-lands
Lóna elda mildi,
Að einn systkyna arfi hans
Eignast ríkið skyldi.
19. Alfons bróðir einhardur
Arragóníu mátti
Stýra rjóður Reinardur,
Randrek son hann átti.
20. Sá til Spánar sendur var
Sjóla Reinards mögur,
Hvaða lán það honum var,
Hér frá greina Sögur.
21. Sjóli Spánar Systur á,
Er sólin Rínar skreytir,
Foska mána fögur gná
Flippína heitir.
22. Sú var játuð jörðin gulls
Jarli Búrgúndía
Róbert, kát, og fékk til fulls
Förgun sorgar hlýa.
23. Frakklands dýri döglíngur,
Dagóbert sem heitir,
Var hann hlíri víðfrægur
Valþjófs kérti beitir.

24. Róbert átti rósu við
Røðuls fríðu gjallar,
Með tignar háttum, tíginn nið,
Tistran lýður kallar.
25. Frægð og géfna fegurð bar
Funa grérinn hranna,
Karlmanns efni að hann var
Ætla' eg mér að sanna.
26. Firrtur neyð 'á fleinstigum
Að frægðum prísanligur,
Í burtreið og einvígum
Átti vísan sigur.
27. Auðuns glóða' úngan þund,
Yfir sljóðið grana
Móðurbróður fánga fund,
Fýsti gjóður Hrana.
28. Fylgð að kjøri fóstra sinn
Frægðir eptir vaxa;
Var nú førin velbúin
Viða hefli saxa.
29. Tistran kveður føður frí
Og freyu mána síkis,
Leiðir treður þaðan því
Þá til Spánar ríkis.

30. Madrít heitir høfudborg
Hann þar stadar nemur;
Alfons breytir allri sorg
Þá audnumadur kémur.
31. Frænda gódum fagna vann,
Fremstan hann þar metur,
Því halur þjóda hróſun fann
Hverjum manni betur.
32. Kóngur skynjar þad og þjód,
Ad þokkasamur géstur,
Þar sem dynja hlífa hljód
Helzt sé frama-mestur.
33. Kjærleik allra gjæfan gáf
Geira hlenna' í ranni
Mátti valla augum af
Ødling renna manni.
34. Um Raudrek hinn med sanni svinn
Sagdi þjód á ládi,
Honum finnast fátt um sinn
Frænda gódan nádi.
35. Tistrans gat ei heyrt á hól,
Í hljódi spart nam kvarta,
Bølvad hatur øfund ól
Í hans svarta hjarta.

36. Í illu bragdi Ófund téd
Eitri spúdi um huga,
Flegdu lagdist meinvætt med,
Sem madur brúdi dugar.
37. Saman bædi saurug fól
Sofa því med grandi,
Þeirra sædi eitrad ól
Orma sínagandi.
38. Í módur svarnir illa ætt,
Ei mun hjarna fridur,
bitvargarnir bjuggu hætt
Babba-skarnid vidur.
39. Á lasta dínu lúrad hræ
Lífs mun þróttinn baga,
Sér til pínu eignast æ
Unga, nótt og daga.
40. Látum Raudinn raga þann
Í rúmi nauda búa
Mein, þó kaudinn varla vann
Vigra haudi trúa.
41. Tistran skeytti trygd og sátt,
Tal má þar um géra,
Aldrei breytti' á annann hátt
Enn sem var ad vera.

42. Handa neytti þróttar þrátt
Við þundar skarið bera,
Ydlíng heitt því unni' og dátt
Arma hara frera.
43. Garpinn skreytti géð óslátt
Gladdi snara vera,
Gjafir veitti og vinsæld brátt
Vann sér þar að géra.
44. Þarf eg latur þessa tíð
Þar að hvata orðum:
Alfons sat og øldin fríð
Yfir matar borðum.
45. Inn á hallar gólfið gékk
Géstur snuðuglegur
Hann að lallar hilmirs bekk,
Hrotta skrúða dregur.
46. Hvørgi sveinum heilsar þar
Hnikars bála sveigir,
Olíugrein á brjósti bar,
Byrjar mál og seigir:
47. Við þig brín eg erindi á,
Alfons stjóri hrínga!
Sendur Kína kóngi frá
Kúnkvín fór eg híngað.

48. Land þitt fundið hefir hér,
Heldur enn í vørum,
Þeim tvø hundruð þúsundir
Þjóna menn á knørum.
49. Hans er meiníng eigi ill
A eg þér að seigja
Sig hann reyna við þig vill
Svo vøldum gérir fleigja.
50. Hann hefir fest með hótin góð
Handar lindi fanna.
Keisarans mesta Mógols jóð
Meyblóm Indíanna.
51. Linda man um lind og stig
Lyndir kjóla skreytir,
Indíana yndislig
Indía sólin heitir.
52. Fyrir að sofa seims hjá hlín,
Svo ei lánið feldi,
Hefir hann lofað hausi þín
Henni, og Spánar veldi.
53. Nú eru eingin ønnur ráð,
Eyðist herlaus staður,
Enn þú geingir á hans náð
Aumur! berhausaður.

54. Kúnkvíns annad ástar bod:
Attu beim ad fánga,
Hafirdu mann í hildarvod
A hólm mót þeim ad gánga.
55. Hédan gildur høfuds mann
Heldur úr slætti sverda,
Ef svo skyldi ské ad hann
Skémdur mætti verda.
56. En þú ért álfur ef ad þér
Ætlar sjálfum fara;
Þarf ei hálfa hønd á sér
Hann, þinn bjálfa' ad vara
57. Og þótt feingir annann mann
Med unda beittan skéra,
Jeg held einginn einn vid hann
Eigi neitt ad géra.
58. Nú ér ad svara sóma med,
Svo sem eg þér tjái,
Eg svo hara andsvarid
Aptur berą fái.
59. Hér vid rekkur hepta vann
Hjalid sagnar=ríka;
Skal eg ekki eins og hann
Eiga ad þagna líka?

60. Ymu vindinn þjáir þrá
Þreingir ſagnar línu;
Rímu mindinn áir á
Eingi þagnar mínu.

---

## Önnur Ríma.

1. Daga láar díſirnar!
Diggvar, ſmáar, rjóðar,
Viljið þið ſjá á víſurnar
Verið þið þá ſvo góðar!
2. Þókti áður þjóðunum
Þokka ráð og æra,
Máls af láðum ljóðunum
Liljum þráða' að tæra.
3. Bauga hlíðum ſemja ſinn
Saungva blíðan þorra
Kunnu fríðu fornſkáldin
Fyrri tíða vorra.
4. Öllu ſtandi aptur fer,
Okkar landi er vikið,
Skálda anda hefir hér
Hnignað fjandans mikið.
5. Það var áður audveldt ſpang
Ef menn þráðu bjargir

Niður í láðið dymman draug
Dauðan kváðu margir.
6. Þá vóru kvæðin fim og fljót
Fram sem ræða barin,
Ef að stæði í þeim hót
Öll voru gjæðin farin
7. Tóan átti ekki gott
Oðs við háttinu snjalla,
Hlaut hún þrátt (þess vitum vott)
Volud lágt að falla.
8. Þyrfti eina fjoður fá
Flokkur sveina' ótrauður
Krummi meina kéndi þá
Kveðinn steina dauður.
9. Draugs í hami út og inn
Opt var frama lestur
Áfram laminn andskotinn,
Einsog tamur hestur.
10. Færi að reiðast greppa geð,
Gjörðust bleiður klokkvar,
Létu heiðurs hróðri með
Heilar skeiðir sökkva.
11. Ef skáldum frama þjóðin þá
Þordi ama í geði,
Var með sama sálin frá
Sinda hamnum kveðin.
12. Þessi geingin íþrótt er,
Að oss þreingir betur;
Kveðið eingin holda hér
Hún' af dreingjum getur.

13. Þó oss með ráni illþýðið
Auki þjáníng pretta,
Hafa þeir lán og haldast við,
Hvílík smán er þetta!
14. Þrjóta bætur þar um stund
Því með kjæti forma
Jeg, ef gjæti gladt í lund
Gefjon sætis orma.

---

15. Þá með ólund óður svaf
Er eg gól þar fregnir,
Tistran stóli stendur af
Stoltu fóli gégnir:
16. "Seig þú vorum sjóla frá:
Sjá vér þorum manninn,
Í hetju sporum hólminn á
Hann vér skorum þanninn.
17. Að morgni hér eg mæti fant
Meiðist Herjans voðin,
Handska af mér þú haf í pant."
Hinn þá fer með boðin.
18. Þegar dagur hækkar hýr,
Hárs með fagrar skýmur
Ut að draga brátt sig býr
Bruna lagar Grímur.

19. Hvítum blódug-hófa á
Herrann þjóda rídur,
Skrýddist Odins úlpu grá
Med Auduns glód á sídu.
20. Tistran bar, til farar fær,
Fornólfs skar og ríti,
Ur marmara skygdur skjær
Skjøldurinn var hinn hvíti.
21. Bryddur hita Hnipular
Um Hristar glitar vega,
Málverk ritad mundi þar
Mikid viturlega:
22. Hønd um korda hélt þar ein,
Háska' ad forda búnum;
Þar á-horfdi þjódin hrein
Þessi ord í rúnum:
23. "Himni sigur færdu frá,"
Fleigir vigur blídur
Tígugligur Tistran þá
Tíar sig og rídur.
24. Knúdi frídan hófa hjørt
Um hrínga-Sidhøtts-strindi
Einsog hýdist eldíng bjørt
Undan grídar vindi.

25. Gyllir aungu eirdi um jørd,
Undan ſtraungum fótum
Peytti laungum þúngum ſvørd,
Prumdi og ſaung i grjótum.
26. Skáſt af øllum ſkeidandi,
(Skéllir í fjøllum dyna)
Fram á vøllinn freydandi
Faxa=trøllid brúnar.
27. Fyrir ſiendur Kúnkvín knár,
Knúdi rendur glæſtar,
Hafdi um benda burſtaung þrár
Bádar hendur læſtar.
28. Vída um landid ljóma bar,
Laus vid vanda ſlídur,
Eldibrandur Audunar,
A hángandi ſídu.
29. Hélt á ſkildi ſkygdum ſá
Um Skøglar=trildur=vega,
Ørn þar gildur gnapir á
Gylltur ſnildarlega.
30. "Dvinnandi" á þar ſtód
Ord med vanda rúnum;
Drøſul þandi um þvera lód
Púngur ſjandi' í brúnum.

31. Glóudu reidar gjardirnar
Gnita heidar fundi,
Jór á skeidi vakur var,
Vøllurinn kveid og stundi.
32. Leingri saga ei frá því fer,
Frægir Bragar geira
Sverdin draga bádir ber,
Blakka' ódraga keira.
33. Hestar þjóta um léttan leir,
Lipurt fótum beita,
Stángir brjóta bragnar tveir
Vid bæsíngs mótid heita.
34. Kúnkvín þrífur kesju blá
Ad korda stífur færi,
Skjøldinn klýfur allann, á
Eggin svífur læri.
35. Tistran dreira stokkinn stód,
Stundi leirinn hildar,
Reiddi geirin mjøg af mód
Madur=deirinn=snildar.
36. Herdar þverar skjóminn skár,
Skøll hjálmbera jálma,
Brynju skér og svødu sár
Sigtýr gérir hjálma.

37. Kúnkvín hristi hjálma troll
Í hríðir þyrstur böðva,
Hins við Mistar hvellu sköll
Handleggs risti vöðva
38. Heldur táraſt valjörð vann,
Veldur fár óróa,
Feldur jára klofna kann,
Kéldur sára flóa.
39. Kúnkvín ramur rönðu vals
Reiddi gram hinn harða,
Enn við sama hestur hals
Hrasá nam til jarðar.
40. Hinn í ímu svoddan sá
Sem vill glímu flýta,
Svo hold=mímir herðum frá
Hausinn tímir bíta.
41. Endir varð á vígum þar,
Vörn ei sparði friðinn,
Svo Harbarður hræ=naðar
Hneig til jarðar liðinn.
42. Víkings skéður sveitir sút,
Senn á beði torgar
Lögðu í veður Óðins út,
Öld framtreður borgar.

43. Tistran rídur þángad þá,
Þegar á lída fundi
Hausa snídur søntum frá
Fløt víggrídur stundi.
44. Og víghrídar æsíngar
Auka í grídar brædi,
Benjar hýda bæsíngar,
Bresta Sidhøtts klædi.
45. Ad Søndlar lækjum galopnir
Gékk í skjækju hamsi,
Þángad sækir, soltin er,
Med svartar brækur, kramsi.
46. Tistran skarid Blindar þar,
Búka skar med undur,
Skyrturnar hans Skollvaldar
Skísdi þar í sundur.
47. Einginn stód vid ríta rjód,
Rírnar gódur fridur,
Fossar blód um flata lód,
Fellur þjódin nidur.
48. Fólann þann er fréttir vann
Fyrr í rann ad bera
Finnur hann, og hauslausan
Hrottann kann ad géra.

49. Mundin lúdist ítum á,
Undin spúdi dreira,
Hrundin flúdi þjóðin þá
Pundinn prúda geira.
50. Skipum nádu nokkrir þar,
Nú var ráð ad fara,
Ut á lá'dið laungunnar
Løgdu' í grádi vara
51. Skeidir údur undan bar,
Ofsludu súda ljónin;
Upp skaut brúdi Audunar:
Indía prúdu fróni.
52. Kappar þá til Keisarans
Kúnkvín dáinn báru,
Dýrust sá það dóttir hans
Døpruðust bráar kláru.
53. Svo varð Ránar rødla dæl
Rós á brána hlýa,
Einsog mána systir sæl
Sortan láni ský'a.
54. Fjardar bjarma brúar því
Bólgnadi varma hjarta,
Sigu harma svørtu ský
Sól fyrir hvarma bjarta

55. Haddar blída himni frá
Huglar vídis funa,
Tára hrídir þúngar þá
Um þagnar hlídir buna.
56. Flódu' um klæda-tródu tár,
Týndust gjædi fridar,
Skodar hædin hrínga sár
Hnígins klæda vidar.
57. Brot eitt fann af sverdi senn
Sem hún vann ad geima;
Talar þannig því vid menn
Þulu Glanna feima:
58. Ber ei feingin sár á sér
Sá er dreing nam vega?
Játar meingi, en jørdin tér
Japa eingja (?)legar:
59. Hann ei verdur harma frí
Hér af sverda mordum,
Kúnkvíns sverd þvi eitri í
Eg nam herda fordum.
60. Veit eg reynir víga þann
Voda meinin hræda,
Því jeg kann ein, en einginn mann
Annar, svein ad græda.

61. Klæda gná med harmi há
Hrygdar sáir bárum;
Tala má í tíma frá:
Tistran lá í sárum.

62. Einginn græda mátti mann,
Meinin fæda trega,
Eytrid skjæda allan hann
Atadi hrædilega.

63. Skipar ad búa skála einn
Skabla hnúa Práinn,
Fýsist nú í huga hreinn
Hann vid búa sjáinn.

64. Lét sig flytja þángad þá
Púngu bitinn meinum;
Fóstri vitur hans þar hjá
Honum situr einum.

65. Hródur bída læt og lag;
Ljód nær frídur kvedur,
Gódur lýdur bæti brag
Bródur prýdi medur.

---

## Pridja Ríma.

1. Viljid þid stúlkur vísur heyra,
Og vera kátar,
En þaradauki lítilátar.
2. Skal eg ydur skrifa bréf
Med skálda auda,
Og fyrir ydur frammi standa.
3. Þó eg eigi dikti drósum
Dýra bragi,
Fyrir því allt má fara í lagi.
4. Þad er af sem ádur var,
Ad yrkja um Rósu
Mína stirda Mannsaungsglósu.
5. Því eg veit, ad varla skeyta
Vísum linum
Þeir sem lifa' í heimi hinum.
6. Jeg hef' haldid heitord mín
Því hýra vísi,
Medan hún var hér á lífi.
7. Hýrri kvad eg hringajörd
Í hægum tímum
Mannsaunga í mörgum rímum.
8. Mun eg leggja — mæta sídan
Misti hana —
Minni rækt vid Mannsaungana.
9. Ef því meina eingin verdi
Af þeim notinz
Enda skal nú þessi þrotin.

10. Í salnum lá við sjóarstrønd,
Það saung eg fyr um,
Tistran, nærri dauða dyrum.
11. Fóstri hans nam hjúkrun veita
Hjarta-góður
Einsog besta barni móður.
12. Úti þegar hann er á kreiki
Einhvørn daginn,
Farmenn enska fann við sæinn.
13. Talar hann um Tistrans neyð
Við Thýra korða;
Þá nam taka einn til orða:
14. "Að Indíalandi ef hann vill
Með okkur fara,
Honum bætist heilsan rara.
15. Mógols dóttir merkileg
Hann mundi græða,
Af honum hreinsa eytrið skjæða.
16. Á mánuð' hverjum mærin
Gjørir marar vitja,
Í fjøruna, þar sjúkir sitja.
17. Allra handa mannleg mein
Sú menja tróða
Læknar þá, með liðsemd góða.

18. Herra þinn skal heilsu fá
Með heppni rara,
Ef okkur með hann fýsir fara.
19. Tistran þetta tekur ráð,
A trønu streingja
Borinn er til dýrra dreingja.
20. Valvan sjóar velta náði
Voga linna,
Indía þeir frónið finna.
21. Lausa Tý á landið síðan
Lýdir bera,
Sjúkir menn hvar setu géra.
22. Eptir fárra daga dvøl
Að dýrum vana
Ung þar kémur Indíana.
23. Henni fylgdi meya mergð
Að marar býlum,
Andlit huldu allar skýlum.
24. Frúin Tistran finnur þar á
Fjøru stordi
Og innilega á hann horfði.
25. Halinn spurði hadda Losn
Svo heyrdi meingið:
Hvar þau sár hann hafi feingið.

26. Enskur madur er eg, nádi
Ansa hinn frídi,
Og fékk mín sár í frønsku strídi.
27. Manninn sídan makar smyrslum
Mornin fata
Tistran kéndi bradan bata.
28. Med sér smyrsli mærin gaf
Þeim meininn þjaka,
Hérnæst vendi hún til baka.
29. Innan daga þriggja þá
Var þorna rjódur
Sára heill og heilsugódur.
30. Sídan þadan sigla lætur
Sæmda frekur
Spánarveldi Tistran tekur.
31. Astúdlega ødlíng fagnar
Ungum manni;
Veitsla høfst í vænum ranni.
32. Gledin nádi gumna allra
Gédid fylla
Enn Raudrekur sér undi illa.
33. Þad bar til nær þeingill var
Med þorna meidum
Ad skémta sér ad skógaveidum.

34. Flaug úr runni einum ør
Með afli megnu,
Hattinn Tistrans gékk í gégnum.
35. Því næst flýgur fyrna ør
Að fylkirs vánga
Skóginn leita lundar spánga.
36. Eingan fundu ítar mann
Um, úlfa geyma
En Raudrek allir hittu heima.
37. Sá nú Tistran sér og Kóngi
Svikin búin;
Reingd um það var Raudreks trúin.
38. Einum sér því ætlar hann að
Erfa sjóla,
Landið allt, og linna stóla.
39. Í svefnherbergi sæng lét Kóngur
Sínu smíða,
Tistran skal þar blunda bíða.
40. Þar um tíma þeingill hafði'
Og þegninn náðir;
Varir um sig vóru báðir.
41. Morgun einn svo tiggi talar
Tistran viður:
Borg og ríkið býð eg yður.

42. Þess eg manni eingum ødrum
Unni betur
Tistran svarad gylfa gétur
43. Bodin ekki þigg eg þín
Ad þessu sinni,
Ræsir! hlýd þú rædu minni.
44. Giptu þig med gódu rádi
Gylfi aptur
Ungur bædi' og allvel skaptur!
45. Indíana er sú mær, er
Allir hrósa;
Hana skyldir herra! kjósa.
46. Þagnar Kóngur, því næst
Gánga þeir til borda;
Þeingill tekur þá til orda:
47. Hvørr vill gjøra frama sér
Af flokki manna.
Á einum knør til Indíanna?
48. Þángad færa bónords-bréf
Eg beidi þegna;
Raudrekur man gylfa gégna:
49. Eingan mann eg þar til þekki
Þéntan betur,
Frændi Tistran farid gétur.

50. Ansar Kóngur: illmannlega
Ord þér fara,
Tistran frá því vil eg vara
51. Sídan Kúnkvín Fjølnir feldi
Fróda sagna,
Vinum mun þar varla fagna.
52. Tistran þá af stóli stè,
Vid stillir tjádi:
Best er ad fylgja Raudreks rádi.
53. Búid skip, því brádum skal
Eg burtu víkja,
Gèrdi hitta sólar síkja.
54. Raudrekur þá ríkum nádi
Ræsir svara:
Eg er líka fús ad fara.
55. Tiggi kvad: ef Tistran fer
A trønu eyri,
Þarf eg ekki þángad fleiri.
56. Eptir þetta Tistran tród á
Tjalda vagna,
Med herskip tvø og hundrad bragna.
57. Sídan lætur seggi binda
Segl vid húna,
Og heldur fram á hafid brúna.

58. Hræſvelgur í hreidri ſínu
Hreifaſt tekur
Og vind á undan vængjum hrekur.
59. Vaknar Rán og vænar
Dætur vann ad finna,
Ord þau mælti Ægirs kvinna:
60. Skundid ykkur ſkjøldúngsſonar
Skip ad bera,
Sikkanlegar ſkulud vera.
61. Fallega ykkur faldid nú
Med faſi þídu,
Sýnid honum beſta blídu.
62. Banna eg ykkur flángs og flan
Um flýdru vega,
Eins ad láta ókvennlega.
63. Ykkur látid ekki Kára
Æra heldur
Opt og þrátt ſem illu veldur.
64. Man eg enn nær áttud þid med
Alud merka
Eittſinn flytja Ulfar Sterka.
65. Herrann nærri hlaut ad
Byggja heljar ſæti
Fyrir ykkar ſlennulæti.

66. Bid eg ykkur breyta núna
Betur enn fordum
Tistran vid á vorum stordum.
67. Látid þid mig fá þá fregn,
Ad filkirs nidur
Sanna festi ást á ydur.
68. Sétum hins ad Tistran tók
Med tignar standi
Eina høfn á Indíalandi.
69. Lagdi þar vid eyu eina
Ara héra
Ad fróni lætur bát sig bera.
70. Þekkti einga leid um landid
Lista=dreingur
Einn hann nokkud áfram geingur.
71. Bidu hans vid bátinn menn,
En brjóti sverda
Spora=drjúgt nam vída verda.
72. Skjøldúngs sonur skundar vída
Um skógar runna;
L[illegible]t er einga leid ad kunna.
73. Heyrir Tistran hark og blástra
Hrædilega
Nálgast sig um vída vega.

74. Skrímsli eitt hann skríða sá
Með skrokki ljótum
Móts við sig á fjórum fótum.
75. Hafði að framan hryssu mynd
Og høfuð hvala
Apturmjótt með hálum hala.
76. Skéljum þókti skrokkur allur
Skrýddur vera,
Sem eingar máttu eggjar skéra.
77. Vóð nú fram svo viðir brotna
Vættið døkkva,
Eykur máttu' af stofni støkkva.
73. Tistran sig til varnar vildi
Vaskur búa,
Ei var kostur undan snúa.
79. Svo eg géti fordast fár
Af freku vætti,
Rímunni eg heldur hætti.
80. Kvæði dvína mæðir mína
Muna blundur,
Fræðist Rínar funa lundur.

---

# Fjórda Ríma.

1. Sér ad vaña sækir snar,
Svefna firrtur tíma,
Húsabani Hraungérdar
Hrofshársgrana elfurnar.
2. Margir ljóda mynda saung
Menn á vorum dögum,
Fridri glóda fjardar spaung
Flokka bjóda kvædin laung.
3. Því er vandi ordinn á
Arid stór ad kveda,
Hér á landi skíra skrá,
Skálda andinn þreytast má.
4. Fram þó lokka viljum vér
Bænnar þjódar hylli,
Um kvædin okkar meinast mér
Margir flokkadrættirnir.
5. Einir vilja' í allan stad,
Ord sem tölud væru
Áfram þylja einfaldt blad,
Svo allir skilja megi þad.
6. Varast bragi þúnga þá
Þykir slíkum sæma,
Eddu=hræi fleigja frá
Fjærri lagi ei heyrast má.
7. Adrir vanda vilja sér
Vísur fremur láta

Med klíngjandi háttum hér
Hjálmberanda spenna kér.

8. Í einum klasa af kénningum
Kvædin binda vilja,
Þó þar flasi innanum
Onýtt fjas af hortittum.

9. Efnis tóman orda þátt
Ekki þessir lasta;
Dyllir ómur eyrum dátt
Ef í gómum smellur hátt.

10. Sumir vilja sýngja um stríd,
Sorgar efni hinir,
Adrir þylja um það níd,
Ef einhvør giljar klæda hlíd.

11. Enn ad sýngja um efni há
Andar flugi medur,
Og lopti þvínga þánkann á,
Þjódspekíngar vilja sjá.

12. Þeir sem valda þvílíkar
Þulur ad gala ljóda,
Gégnum aldir ókomnar
Ordstýr halda lofdýrdar

13. Hver það kaupir hrósid sér,
Hinna þótta eptir
Ei má hlaupa, einsog vér
Odins staupa gikkirnir.

14. Mér er gata þessi þekk,
Þótt eg sjálfur megi
Fögrum glata fræda smekk,
Fyrst eg sat á lægri bekk.

15. En hvorjum fylgja eg fremur á
Fyrri toldum skara,
Fyrir bylgju fima guá,
Fleyri dylgjur verda á.

16. Veit eg ráð sem þénar þá:
Pylja skal eg stundum
Einfaldt kljáda ódar strá
Og ofur smáda bragi fá.

17. Eg mun stundum aptur því,
Undir háttum dýru,
Kérin þundar ausa í
Og Eddu grunda málin ný.

18. Bragna þá eg býda bid
Þáttinn stuttan skoda;
Um þad sjá er áformid,
Ad allir fái dálítid.

---

19. Tistran ádan flýdi frá
Fœlin kjœlan glumru:
Hríngs- Gángrádar-huglu á
Hann ódáda skrímslid sá.

20. Hríslu landid hala slær
Herkju sterka merin,
Med útþandan kjapt og klær
Kom Hjaranda sverda nær.

21. Tveimur mundum færdi flein
Fridur á sídu vargi

Fjødrin sundur hrøkkur hrein,
Hárs sem tundur mætti stein.
22. Verri gammi vargurinn
Víst að Tistrans brjósti
Fremri hramminn færdi sinn,
Fyrir rammar skildi hinn.
23. Tistran sleppti twíbyrdíng
Tók og vildi flýa,
Skrímslið kreppti hala í hríng
Honum eptir sig um kríng.
24. Ekki linur álma Týr
Einum steini kastar
Ofan í gin, en ærist dýr
Og med hrinum blódi spýr.
25. Med undra skræki ærast fór
Illur villu dreki
Að sér krækir álma Þór,
En hann mækir spenna fór.
26. Undir vargi verdur sá
Vafurs sævar hlinur,
Þrotinn bjargar biltast má
Blóðs í arga spýu þá.
27. Undir hramm í hjartad rak
Hjørinn verinn sørsa

Skrímslið rama þoldi þjak
Þykkur skammar dreyrinn lak.
28. Tistran veit ei til sín þá
Tíma síðan lánga;
Dýr af þreitu dodna má,
Dautt á heitum velli lá.
29. Við nær mætur vakna fer,
Vart sig hrært hann gétur;
Að standa á fætur fær ei er
Flidru sætis mána grér.
30. Lækjar belti lítið hér
Lóðins fljóðið yfir
Vatni helti; böl sá ber
Bragníng velti þángað sér.
31. Ofan í lækinn lagdist þá,
Lætur hitann svía,
Á hann sækja aungvit þrá,
Eydir mækja þannig lá.
32. Hins má géta hér á brá
Hrundin Indíana
Skóginn fetar fögur á,
Fylgja lét sér vísin smá.
33. Skrímslið fallið fyrir ber.
Fínar sjónir meya

Skrúda snjalla Skøgul sér,
Skógurinn allur brotinn er.
34. Lækinn vidur líka hvar,
Lítur hvítur svanni,
Einsog lidinn liggur þar
Lódinn skridu dalneydar.
35. Kominn ad bana kvendin smá
Krapta sviptan draga
Bakkann Grana álma á;
Indíana mælti þá:
36. Mér er grunur leyniſt líf
Lúd í prúdum kappa,
Strídskémpuna hulda hlíf
Heim því munu færa víf.
37. Heim svo báru báru í rann
Blossa hnossir fridar
Dreka lára lárvid þann,
Ur laufa fári sárneyddan.
38. Lætur sofna svo med prís
A sínum fínum bedi
Gjallar ofna øndurdýs
Atríd Fofnis þrumu vís.
39. Lækning byrjar, grædast grønd,
Glóda Odins lækja

Nádi smýrja smárri hønd
Smaragds kyrja sárin vønd.
40. Þad var grædíng þægdar snør,
Þridja lidin daginn
Nam í ædar færast fjør,
Fór ad klædast menja bør.
41. Kérlaug sídan kvendid bjó
Kvisti rastar mána,
Hugar-kvídi honum dó,
Hraustur smidur rædu þó:
42. "Þér eg ríkar þakkir vinn,
Þykir ei mikid skorta,
Ef dreka slíka freya svinn
Fægir líka brandinn minn."
43. Hún ad stundu hreinan þá
Hjørinn gjøra nádi,
Skafla mundar Skøgul sá
Skard í Þundar ljósi blá.
44. Skipti litum, bliknar brá
Brúdar snúduglega,
Sínum vitum í hún á
Odins hita stykkid smá.
45. Grundin vella vid þad bar,
Vandi ad høndum kémur,

Þad vid féll sem vonlegt var
Vísid hrellist, géfur svar.
46. Banamadur Kúnkvins knár,
Kénni eg sannarlega,
Þrá-bølvadur øll þín ár
Ertu nada reynir þrár!
46. Brjóstid þora því skal mitt,
Þessum hvesíng medur,
Svo gremju vora géti stitt,
Gégnumbora hjartad þitt.
47. Hennar fadir merkja má,
Málid brjálast vina,
Kémur ad í þessu þá,
Þegni skada búinn sá.
48. Þrífur brandinn fljódi frá
Frækinn ríkja stjóri;
Mærin anda ekki má
Ostillandi af reidi þá.
49. Tistran badi frá nú fer,
Fordast borda þrúdi,
Gékk í stadinn hallar hér,
Hilmir gladur vid hann er.
50. Bréfin lánar, best med skil
Á bóli, stólkonúngi

Og um mána brúar bil
Beiddi Spánar kóngi' í vil.

51. Svørin hneigir þannig þá
Þjóðar rjóður hari:
Hvørt hún seigir af eda á,
Alfons treyu sól skal fá.

52. Lætur kalla lofdúng snar
Ljósa rósu vatna,
Gékk til hallar, grátin var,
Gíma fjalla dalneydar.

53. Þú ert kjørin, Kóngur tér,
Krónu Spánar ríkja,
Drottníng rør, en satt eg sver:
Svoddan før þín líkar mér.

54. Sorgin bardi hyggju hlé,
Hjarta snortin kvída
Føðurs harda kyssti kné
Kjærann vard því svarande:

55. "Lát mig heldur fadir! fá
Fjøri og kjørum týna,
Og bjørtum eldi brenna á
Enn budlúng selda hédan gá."

36. Budlung svarar: "búdu þig,
Barnalætin þessi

Ekki parid mýkja mig,
Á Mjáldurs fara skaltu stig."
57. Svo nam hreinlynd svara þá
Sunnu brunna prúdur:
"Vøls þó meina bægl' þrá
Bæn mín eina láttu fá:
58. Tistran látid herra! hér
Hiklaust kvikan brenna;
Þegar í máta þannig skér
Þú eg játa ad rádir mér."
59. Ei svo frægan myrda mann
Má eg, tjáir sjóli,
Dádir þegar drýgja vann,
Drap óvæga skrímslid hann.
60. Harma sáran kéndi keim
Klæda fríða tróda,
Vísid klára vafid seim
Vot af tárum snéri heim.
61. Enn þótt moturs eyunnar
Angur þúnga grói,
Búinn floti' af fleyum var
Fodurs snotru meyunnar.
62. Indíana um þá tíd
Aum vid rúmid heldur,

Móðir hana huggar blíð,
Hresßist Grana klifja hlíð.
63. Horn eitt færir móðir mær
Með sér biður flytja;
Ef hér af næraſt hjónin kjær
Hitinn ſkjæri áſtar grær.
64. Alfons láttu því með þér
Þekkan drekka mjøðinn,
Kjærleiks mátt hann með sér ber,
Mildíng dátt þú unna fer.
65. Nógu fróðar náms í trøð
Nornir fornu tíða
Þér til góða gullſkorð hrøð!
Af grøſum ſjóða náðu mjøð.
66. Tíðin eyðiſt, lið að leið
Lagar dregur jóra,
Svo til ſkeiða haddar heið
Høldar leiða', er raunum kveið.
67. Þernu fylgja fríða lét
Fljóði móðir eina
Þá á bylgju þunna flet,
Þrúður ſilgju Galmei hét.
68. Laungu vagna ljóſin há
Loga um voga=héra.

Aka bragnar út ásjá,
Ægis fagna dætur þá.
69. Dymmi hrídar daugurinn
Deyfir glæfur brúna;
Því skal bída bragurinn,
Bætist sídar hagur minn.

---

## Fimmta Ríma.

1. Þó vilji' eg kvæda streingi stilla,
Stjörnu flæda gná
Seigist bædi seint og illa
Sögunnar rædur fá.
2. Minn þótt þvætting mærin heyri
Mun ei kjættari,
En þótt eg hætti er audar eyri
Ekkért bættari.
3. Því skal hljóda herda hvidur
Og Hnikars bjóda drösn,
Eyra ljódin verdur vidur
Vímurs glóda Sjösn
4. Mér var fordum ad því yndi,
Á sem horfdi þjód,
Öls hjá bordum stjörnu strindi
Straums ad orda ljód.

5. Sídan Rósa firrtist fjori
Forlast glósan kann,
Skjærri drós eg skémta kjori
Skálda hrósid vann.
6. Nú þó vild' eg hinna huga
Hressa snildum med,
Ei vill gildi Dáins duga
Er dúka hildi kved.
7. En hvad er ad láta hugann falla
Hitt þó bjáti ad;
Snótir kátar eru allar,
Edlis máti er þad.
8. Ef eg leingi bljúgur bænist
Bragar streingjum á,
Og meyan eingin ad mér hænist,
Oss er geingid þá.
9. Audums kéra lystugt lødur
Leitar sér þó hróss,
Kvædin eru ástar mjødur
Hmdum hvera ljóss.
10. Því skal einginn ísa trúa,
Þótt áugurs geingi stig:
Ad einan leingi láti búa
Linda speingur mig.
11. Fyrst ad vina fljódid kjæna
Fjørsins skini brá,
Uppá hinar eg skal mæna
Anda linur þá.
12. Skapid sýkist skáldi valla
Er skilníng ríkan ber,

Fridar píkur elska allar
J einu, líkar mér.
13. Fyrir lagar elda ímu
Ef ordin hagast slíng
Nýan brag og nýa Rímu
Núna í dag eg sýng.

---

14. Vængja-sárir Fornólfs fuglar
Fregn þá báru mey,
Fram ad klárum hríngnum huglar
Hrundin váru fley.
15. Skipin nenna' úr høldum hlunna
Hlés á rennurnar,
Um þau brennur síkja sunna
Og silfur-spennurnar.
16. Indíana meyum medur,
A mæri svana blátt
Fram á Grana gjálpar tredur,
Gladdi hana sátt.
17. Tistran fer á fleyi odru,
Fjærri vera má,
Afram ber svo neglu nødru
Náhvals skérin á.

18. Kadlar þjóta' á Bólmar baugum,
Brimla rótast frón,
Bylgjur gjóta opnum augum
Uppá fljóta-ljón.
19. Býlis grána blódug hófa
Birs ei dána kjør,
Skéldi Rán á skutinn lófa
Skrid svo lánar knør.
20. Fjórtán daga fram svo lídur,
Fátt til baga er;
Pessi saga þarna bídur,
Pad svo hagar mér.
21. Ef sú dvølin eingan styggir,
Um þad tølum næst,
J Fensølum Freya byggir
Fróda mjølsi glæst.
22. Pví hid sanna þar um spjøllum:
Pjódgudanna blóm
Rædur manna ástum øllum
Og ýngismanna blóm.
23. Gydjan Vana vann ad líta,
Vidur hana kjær,
Indíana hørunds hvíta
Harmadi bana nær.

24. Bísið klára vill ei láta
Um vota báru hlíð
Hugar sára gremju gráta
Gyðjan tára fríð.
25. Vill því hægi hugar galla,
Hún nálægir sig,
Rán og Ægi réði kalla
Rósin dæilig.
25. Logn á sjáinn læt eg færa,
Ljóma tjáir hrið,
Einginn má sig hótið hæra,
Hlés um bláa leið.
26. Ykkur banna eg áfram flytja
Indíanna blóm;
Fyrst um svanna vil eg vitja
A vænum hrannar lóm.
27. Kváðust hlíða hafrádendur
Henni' og síðan þá
Logn og blíða leingi stendur
Laungu hlíðum á.
28. Nú eg gél hið sanna' um sveina,
Svo framtelur skrá:
Sels á meli sáu eyna
Sti Helená.

29. Byrinn nýta missa mundu
Meidar ríta þar,
Lystugt ítar lagi fundu,
Lognid hvíta var
30. Borda svani bindur streingur
Byrinn vanar líd
Uppá Grana elju geingur
Indíana fríd
31. Fylgdu kvendi menn og meyar,
Sem meina kéndi únd,
Hún svo vendi um vegu eyar,
Varminn brendi sprund.
32. Varminn stœki vill ábjáta,
Vegu krækir þjód,
Porsti sækir sár úr máta
Sólar lækja slód.
33. Drykkjar beidist mæt af meyum
Mornin heida orms,
Bátur leidist fram ad fleyum
Fjærri neydum storms
34 Galmei finnur horn med hendi
Happa vinnu fjær,
Tistran inn med úngu kvendi
Oms ad kvinnu rær.

35. Teigar þrúngin Indíana
Ol að lúngna bekk,
Síðan þúnga gunni Granna
Grím, hin únga fékk
36. Leifar hennar þambar þyrstur
Þráinn brennu sjós,
Hornið nennir tæma ótvistur
Trúrri senn með drós.
37. Ástar kéndi Indíana
Er opt til bendir meins,
Elskan brendi innan hana
Á úngum sendir fleins.
38. Tistran fríði huga hreldur
Horfði á blíða snót,
Logaði á skíðum ástar eldur
Um yndis hlíða rót
39. Hann og meya hissa stóðu
Harma degi brá
(Brosti Freya af gèði góðu
Er gjørði' eg segja frá).
40. Bæði róa skjótt með skyndi
Skipa flóann á
Drósin bjó með døpru lyndi
Á dælu Kjóa þá

41. Á snekkju adra leggst ólína
Lensu fjadra Týr,
Par samjadra hélt við hina.
Hlunna nadra dýr.

43. Gat ei blundinn bála ála
Björk þær stundir fest,
Eins um þundinn þjála skála
Á þistils undu téſt.

44. Þegar dagur þvita litar
Þarum haga lands,
Kallar lagar hnitud hita
Hløkkin fagra bands.

45. Þegar álfur-ís dalneydar
Ydun-bjálfa leit,
Armar sjálfir út sig breida,
Andrúm skjálfa heit.

46. Fallast bædi í fadma hvítu
Flúdi mædan þá
Eya lædings-elda nýtur
Odin rædir sá.

47. Ást þér seld á unni og løndum,
Eg það hreldur finn,
Mínu heldur hjarta í bøndum
Heit, sem eldurinn.

48. Elſkan pínir andar rœtur,
Audþøll ſkínanlig
Hér vid þínar fagrar fœtur
Flatan ſýni mig!

49. Medur vanſa má eg játa,
Meyan anſar hýr,
Allir ſanſar eins mig láta
Unnar kranſa Týr.

50. Drykkur okkar áſtum veldur,
Auds nam hløkkin tjá
Því mig lokkar elſku eldur
A þér þokka' ad fá.

51. Eitt þad horn, èr af vid neyttum
J yndis fornar krá
Búid nornir hafa heitt um;
Hvør vid ſporna má?

52. Sverda hriſtir høndum ſpenna
Hrínga=lyſti=ſkord
Beſta kyſti blómid kvenna,
Bølid giſti mord.

53. Eda hitann áſtinn hvetur,
Ad-honumm ſvita ſlœr,
Hann vill vita hvørt ei betur
Hana nytjad fœr.

54. Blódraud vard í bádum kinnum
Bruna fjardar sól,
Durinn barda dygda svinnum
Dóm svo hardan gól:
55. Píg eg kjæran hef' af hjarta
Hrínga mæri grér!
Enn vora æru ad vakta bjarta
Vil eg læra hér
56. Jeg er kvinna konúngs Spánar,
Pó kvída finni mey,
Ástar-minnar-megin lána
Má eg svinnum ei.
57. Pig mátt vara þess ad leita,
Pér ei spara hvad
Eg sem rarast orka, ad veita,
Utan bara þad!
58. Pótt eg vildi vid þig kémpa!
Vera mildari
Læt eg skyldur lysting dempa,
Líst mér snild þad sé.
59. Hætti rómi vísid vitra
Væn um sóma bjó;
Vid þann dóminn Tistran titrar,
Talar frómur þó.

60. Þúngt er að hlýða þessum boðum,
Þjáir kvíðinn mig,
Að sjá þig skrýðast sængur voðum
Sjóla prýðilig!
61. Og þar búa en á þig trúa
Elsku frúin góð!
Þetta nú má bana búa
Bála hnúa rjóð.
62. Leggst nú hann við frúar fætur,
Fleira bannað er,
Hvørt í annars ørmum grætur
Elskan sanna skér.
63. Sambúð enda fær við frúna
Fleina bendir þá.
Byrinn sendist nægur núna
Náhvals strendur á.
64. Seglum haga um raðir ráa
Rita bragarnir,
Fram á slaga brimið bláa.
Bjørninn lagar fer.
65. Ríman fremur hér ei heyrist,
Hugurinn nemur stað;
Gríman kémr ræðan reirist,
Rekkum semur það.

---

## Sjøtta Ríma.

1. Rímu mynd í mornar vind
Þó meigi ei hind á verda,
Eisu lindar Idun bind
Og Helblindi sverda.
2. Fram skulu tína ef dád ei dvín
Daga hlín Einstiklu
Kvædin mín ad seggja sýn
Sogunnar línur miklu.
3. Medan kvæda mál nástæd
Má í rædum lúka
Þú mátt klæda þídlind hæd
Polinmædi brúka
4. Kuldinn veldur vetrar kveld
Beikist heldur glósa,
Eg þess geld ad allar held
Olsins kéldur frjósa.
5. Vetur þordum baugs hjá skord
Bragar ordum haga,
Þá á bordum stód um stord
Staupid fordum daga.
6. Gledur sína en glatar pín,
Gjædin hlýna í rædum,
Aldrad vín, og andar hlín
Ung, á sínum klædum.
7. Una slíngvir ols vid bíng,
Illar þvíngast lundir,
Staupinn klíngja hvell í hríng,
Holdar sýngja undir

8. Veigar renna á Vínglas = enn
Varma kénnir inní
Bragnar spenna og sotra senn
Sigmund kvenna mynni.
9. Svo í krans med brúa bands
Blídum fansi þorum
Troda dans, en týna stans,
Tónar ansa sporum
10. Geds í midi magnar frid
Madur og snidug píka;
Kom eg vid þar kappa lid
Kunni sídi slíka.
11. Lítt má buga lífsins dug
Ljód oblug ei stansi
Eg þródugur færi á flug
Fljód í hugar dansi.
12. Látum þræda um innstu æd
Afl ad kvædum vorum;
Sólar flæda syngja hæd
Sögunnar frædi þorum.

---

13. Lét eg módur lokinn þjód
Lögin Odins súpa
Hlunna blódug = hófi vód
Hlés á flódid djúpa
14. Öldur þjóta upp á mót
Ísu rótast vángur

Kom á fljóta himinhrjót
Harla skjótur gángur
15. Vindar þráir hof um há
Húna mái elltu,
Reidann slá, enn rárnar þá
Rombudu af sjáar veltu.
16. Ránga hari rótar mar,
Rifna skarir boda,
Byrinn snari þandi þar
Þunnar spjarir gnoda.
17. Súdir moldu sjáa fjøld
Sífelt nøldra og braka,
Á rambhøldum hvítu tjøld
Hjartar øldu blaka.
18. Stundi raung vid strauma þraung,
Stormar gaung um voga
Hádu saung vid seglin laung,
Svignar staung í boga.
19. Byrsins þrána ei vard án
Øld á grána frónum
Velti Rán ad veldi Spán
Vatna fránu ljónum.
20. Alfons sér hvar flotinn fer
Fram ad veri geingur

Þar atkér ad botni ber
Bundinn er vid steingur.
21. Líkt og sunna laugud Unn
Leiftri á þunnu hveli,
Lídur brunna ljóma kunn
Lofn frá Gruníngsmeli
22. Tistran færir tiggja mær
Trúr med æru hóti;
Sútin grær, en hilmir hlær
Hal og kjæru móti.
23. Fljódid bítur naud ónýt,
Nádi sýta og trega,
Sundur slítur hjørtun hvít
Harmur ítarlega.
23. Fljódid gár frá leidum lár
Lyndi sáru því í
Flokkur klár svo koma nár
Í kyrkju Lárentii.
24. Var kórónud væn ad sjón
Vígslu tónast stefin
Og Alfón ad fólksins bón
Freya prjóna gefin.
25. Sídan snéri ad høllu hér
Hjalls um þvera vega,

Veitsla er þar gøfug gér
Gumnum verulega.
26. Sest í vøld og fjárins fjøld
Funa øldu gérdur,
Góðlynd tøld af allri øld
Ástum føldud verdur.
27. Tistran þjáir hugraun há
Hvar sem náir skunda,
Samt hann má í húsi hjá
Hjónum ávalt blunda.
28. Raudrek á eg minnast má,
Mjøg hann þjáist trega,
Illum lá í andarkrá
Ofund þrásamlega.
29. Kom eittsinn fyrir konúng inn
Kjaptar slinni ragur:
Herra minn! nú heidur þinn
Held eg linni fagur.
30. Tistran sá er ástir á
Ødlíng þrávalt hefur
Audargná (þad opt eg sá)
Ormum smáa vefur.
31. Vid ydar frú þad hrekkja hjú
Heldur, trúa meigid!

Hørmúng sú mitt hyggju bú
Hefur drjúgum sleigid.
32. Vid því hara helzt mér bar
Heilla snarann vara;
Illum Nara álmdrósar
Ødlíng rar nam svara
33. Láttu vera ad ljúga ad mér
Lasta kérum vestu,
Tistran er sá æru ber
Ædri þér í flestu.
34. Ef þú vekur opt þau brek
Af illsku þreki brínu
Lyga-frekan-raum eg rek
Ur ríki sekan mínu.
35. Burtu gékk sá, forsmán fékk
Fyrir hrekki og lýgi
Gat ei þekkan rægja rekk
Randar ekkil-stígi.
36. Þessar tídir fregn ófríd
Um frónid vída géngur:
Kóngi lída stefnt er stríd,
Stál úr hýdi geingur.
37. Af Asturía bygdum bý
Brædur því sem valda

Med þúsund tíu twisvar í
Týrfings gnýinn halda.

38. Hertogi var sá voldin bar
Valdemar hinn sterki
Herant þar hans hlíri snar
Hildar larar serki.

39. Fylkíng vandad sá í stand
Faldadir brandar serkjum
Koníngs fjandar bríndu brand
Og bidu á landamerkjum

40. Tistran fer med heima her
Holdmímir ad reyna,
Rídur frera fíngra ver
Filkíng hér med eina.

41. Eins Raudrek er ætlad þrek
Ekki sekur þadra
Fram hann tekur fleinn þar lék
Fylkíng hrekja adra.

42. Herant mót hann spennir spjót,
Springur þjótur horna,
Skélfur grjót þar glymja klót
Og grana snótin forna.

43 Vopninn bar ad Valdemar
Víga snar í gjólum.

Tistran þar, sem tyrfíngar
Tóna' á starblinds kjólum.
44. Gljáir rønd vid hølda hønd,
Er hornum þøndum blása
Þóktu gøndlar ljóma lønd
Af loga brøndum ása.
45. Gautar málma ota álm,
Órfar fálma berar,
Létu hjálmum skjalla skálm
Skøglar sálma verar.
46. Heldur parast hlífarnar
Hrofta skara vidum
Skérast fara skútíngar
Skøgular í hvidum.
47. Brandar sýngja, blódrigníng
Bragna þvíngar hverja
Í haddíngja eli slíng
Aldar þýngist ferja.
48. Herant skeid ad Raudrek reid,
Røgum eydist kjæti,
Hestinn sneid, en hrakinn beid
Hann, med neyd á fæti.
49. Hann ei gétur slúid fet;
Fleins sá hvetur storma

Fallinn ſetja í læðíng lét
Loka ſleta orma.

50. Tiſtran ſjer, hvør ſkadi ſkér
Skjaldar ber hann ſtínginn
Ridlaſt her úr fylkíng ſer
Fallinn er høfdínginn.

51. Eſsi rídur, eydir lýd,
Eggja ſvídur ſtrikid
Þeſsa tíd nam haddíngs hríd
Hveſsa grídar mikid

52. Váldemar á velli þar
Virda ſnara feldi,
Hendur bar alblódugar,
Blindvids ſkar med eldi.

53. Tiſtran fann í hernum hann
Hvata manna grøndum,
Bádir ſpanna brynþvarann
Blódraudan í høndum.

54. Eitt hefir ſjeſt þad einvíg meſt
J Odins hveſtu røggum,
Hlíſin breſtur fyrir fleſt
Fótbíts géſta høggum.

55. Tálgar hríngju, og tvíbyrdíng
Tírs eldíng af ſeggjum

Landgirdíngin lýsti í kríng
Logi úr spríngur eggjum
56. Tistran ýsir ódum kíf
Eggjar sífu þanninn
Sundur skífir hjálm og hlíf
Heila-klýfur manninn.
56. Þá med sverd og glæsta gírd
Geira herdir kífid,
Hvatar ferd ad manna mergd,
Mørgum skérdir lífid.
57. Medan náir múginn slá
Mækja sá í hreggjum,
Eg vil sjá ad fara frá
Fótbíts gráum eggjum.
57. Rímu-tetur svo fram set,
Svæfir leti gédid;
Það er betra' eg fái flet
Frá ad géta kvedid.

---

## Sjøunda Ríma.

1. Látum hljóma hlinum dóma jøtna
Ljóda aptur hendíng hér
Ef hugar kraptur dugir mér.

2. Nótt og daga noldra bragar þulur,
Fyrst ad greidann fljóda þver,
Fer ad leidast brádum mér.
3. En ef mædist ordum kvæda' ad midla
Beitir peuna, veit eg víst
Vingan kvenna í fýlu snýst.
4. Med sínum hætti sérhvor mætti eptir
Ad sér fljódin hænir hér
Hvar til ljódin brúkum vér.
5. Adrir vinna vimur linna stranda
Fjárius gódu gjöfum med
Sem gédid fljóda mýkja réd.
6. Med audmýktinni og úngrar kvinnu hrósi
Ástar svinnu ãtlotin
Adrir vinna' og figurinn.
7. Med lygd og smjadri leitast adrir vidur
Gamma fjadra ad glepja hrund,
Godlynd fladra uppá sprund
8. Sumir kaupa kjapta raupi medur
Ungar grundir gullreimar
Grobbnir stunda lygarnar.
9. Sitthvad þénar sólu menja hverri.
Af því næsta ólíkar
Eru glæstar meyarnar
10. Nema' ad einu (eg sem leyni núna)
Kalla sveinar svipadar
Sólir steina dalneyðar.
11. Segginu ríka sumar píkur velja
Fridan-snikja adrar á
Elda síkja týr' ad fá.

12. Einar kjósa kértis ósa skuldir
Gjæddan hrósi gáfumann
Sem gjalda drósum skémtan kann.

13. Þessum vildum vísum skyldu sýna
Og vöku eina stytta stund
Stúlkna hreina kjæta lund.

14. Því af sögu sannri bögur mínar
Læt eg hljóma hripudar
Hlínum dróma Fjörgínar.

---

15. Blódraudt Tistrans tundur lýsti
hrofta
Sundur gnísti brynjur blá,
Blódi snýstu sárin þá.

16. Hans var fridur flestur lýdur hníginn,
Hættu' og þrautum haldinn var
Hrofta gautur valgérdar.

17. Hérs vid þraungann hnikar saungva
þjassa
Skífdi laungum skyldi blá,
Skálki aungum vægdi þá.

18. Frá sér skyldi fleigdi hildar vinur,
Sínum, meyu Svidris á
Svona hneigir rædur þá:

19. Sá í kísi sér vill hlífa eigi
Blóðs þar øldu eikur starf
Eingan skjøldin bera þarf.
20. Og svo þrífur Odinn fífu mæddur
Sitt með hverri hendi sverd
Hinna verri gjørist ferd.
21. Reidir bádir breida lád um vala
Skeidum fláda fleina þar,
Freyda nádu skeinurnar
22. Feldi þjódir, feldi Þjódans risti
Eldir Lódins elda snar
Eldi' ei blódsins kéldum þar.
23. Meingi hrakti, heingi-naktir-kjaptar
Leingi blakta eldar enn,
Eingi þakti blód-sjórinn.
24. Ædir lødur æda úr svødu skeinum,
Glædast trødum Gøndlar á
Glædur fødurs hrafna þá.
25. Hann svo leingi holund fleingir meingi,
Þjódin geingur hans á hønd,
Hjúpar dreingur sára vønd.
26. Alt þad ríki reifad síkja ljóma
Kóngi Spánar sveitin sver,
Sóknin dána víga fer.

27. Sá sem veldur sigri, í feldi Grana
Skóginn heldur einn fram á,
Er að kveldi dagur þá.
28. Gálga hánn gat að sjá hvar reisa
Tuttugu branda týrarner
(Til mun standa eitthvað hér).
29. Herant var með hinum þar á stræti,
Enn Raudrekur ítum hjá
Illa sekur bundinn lá.
30. Komin snara snúin var um svíra,
Illa bar sig mæddur mann,
(Máské eg fari að aumkva hann).
31. Tistran á með ákéfð þá hann kallar:
Lífið má eg láta hér
Láttu sjá þú bjargir mér!
32. Þeir mig heingja! það er eingin gáta
Nema ef feingir frændi minn!
Frelsað dreing í þetta sinn.
33. Tistran hraður hleypur að í þeſsu,
Tvíeggjaðan tyrfing dró,
Til hræ-naða gauta sló.
34. Raudreks fjøtur risti øtul hetja
Sverði með, og síðan þá
Sundra réði bragna þrjá.

35. Hinir sækja hraustan mækja Braga
Raudur mein ei ratad gat,
Réttum beinum latur sat.
36. Hardnar ima eggja tima lánga,
Tistran seldi fanta þar
Á fletu veldi Gøndular.
37. Herant eggja hópinn seggja tekur
Ad bera vidu vopnin á
Veitirs idu ljóma þá.
38. Samt á veldi seggi feldi átta
Gautur elda Audunar,
Udu kéldur blódraudar.
39. Kappinn mædist margir klædi og vidi
Hrottann báru bláan á;
Búid fárid sá hann þá.
40. Raudrek vidur ræddi Svidrir klæda:
Sattu' á fætur fyrr enn hér
Fallast læt eg sverdid mér.
41. Annars bádir audnu smádir verdum
Á hid háa heingdir tré,
Hádúng smá þó eigi sé.
42. Ekki hrærist hrikinn ærulausi,
Glotti ljótum grønum vid
Geira-njót þá sókti lid.

43. Loks á veldi lýdir feldu kappa,
Tók ad binda þegninn þjód;
Þrællinn synda nú upp stód.
44. Og med hinum æru-linur dári
Fallinn bindur frænda sinn.
Fór ad mynda rædu hinn:
45. Illa raunar oss þú launa þykir
Hjálp, og dád sem hlaust af mér.
Hinn forsmádi aptur tér:
46. Nú hefur dreingur nógu leingi ad sinni
Konungs blída fadmad frú,
Fær ad bída vinnan sú.
47. Gálgans njóta nú, sem hljóta átti,
Ann eg þér af heilum hug
Höldum vér svo lífi' og dug.
48. Tistran vid sér velti sniduglega,
Handaböndin skjóminn skar
Skeinu vöndinn þrífur snar.
49. Og af Herant hausinn skéra nádi,
Frægur stendur fætur á,
Fýsti hendur verja þá.
50. Hinir flýa fyrdar gnýinn sverda
Eins Raudrekur undan snýr
Wrid sekur málmatýr.

51. Honum nádi Hnikar sáda Kraka,
Gleingdi haudur illum á,
Einsog daudur lá hann þá.
52. O minn gódi edla bródir kjæri!
Eyddu módi og aumkun sýn
Ættar blódi seku þín.
53. Tistran gégnir: trúa þegninn máttu
Nú er daudadagur þinn
Dygda=snaudi svikarinn
54. Hausinn lagdi lymsku bragdi medur
Kaudinn þá í kné á hal,
Kløkkur náir vekja tal:
55. Á valdi þínu er velferd mín og lífid,
Hugarspaki geira=grér
Guds fyrir sakir vægdu mér!
56. Med ágjæti mínu bæti' eg aptur
Þessa alla ávyrdíng
Og orma fjalla glæstum bíng.
57. Medan æsi ekki svæsir helid
Skal eg æfa þjóna þér,
Ef þar til gjæsir leysi mér.
58. Tistran stansar, tók ad ansa fóla:
Ekki nenni eg um sinn
Ad þér spenna brandinn minn.

59. Þó átt kaudinn kaldan dauða skilinn,
Enn að níðast á þér hér,
Einginn prýði þykir mér.
60. Því var miður! þrællinn griðum náði;
Síðan báðir halda heim,
Herinn náði fylgja þeim.
61. Alfuni kjóla Alfons stól-kongúngur
Fagna mundi frægur þá
Og føgur sunda ljóma gná
62. Raudreks hrekki ræsir ekki sagði
Tistran dyggur, því um það
Þræll ótryggur manninn bað.
63. Skømmu síðar skømmin níðínglega
Sviptur prýði sálu í
Svika smíðar ráðin ný.
64. Keypti mann sem kúra vann í leyni
Opt í húmi æru spar
Undir rúmi drottníngar.
65. Kaudinn bað hann blauður það að vakta:
Hvørt ei fýsti faðma sprund,
Frægan Tistran nætur stund.
66. Ljóðin bíða, bróður prýði meður
Rjóður viðir eisu áls
Oðar smíðið lesi frjáls.

# Attunda Ríma.

1. Ef hylli feingi Fljóðanna
Fundið mikils verða,
Lángspils-streingi ljóðanna
Lángar mig að herða.
2. Það var síður áður, á
Árunum, fríðra skatna,
Að færa yður fræða skrá
Freyur stjörnu vatna!
3. Það eg úngur þeinkti brátt
Að þókknast yðar geði,
Mína túngu á tóna hátt
Til þess venja réði.
4. Kvæðum hældu hrúgum í
Hlíðir orma beða,
Í mér stældu strákinn því
Stúlkurnar að kveða.
5. Þegar lukkast þetta skikk
Þókti snótum rörum,
Mig að ykkar gjörði' eg gikk,
Gusu ljóð af vörum.
6. Kvidlíngana báðuð þið,
Þókti yndi að saungum,
Komst í vana kjaptæðið,
Kvað eg flokka laungum
7. Þess eg líka minnast má,
Sem mest er verdt að hrósa:
Við mig slíkar vóruð þá,
Sem vildi hjartað kjósa.

8. Mørg upprann mér silki sól,
Er sorga himni lýsti,
Kysstud þann er kvædin gól
Kjært og heitt sem sýsti.
9. Þó nú eldumst eg og þid
Ásku systur mínar!
Enn þá held eg sama sid
Sætur þiggi sínar.
10. Skémtun ræfja skal því heim
Skuldum mána sjardar,
Uns mig sækir seinast heim
Systir orms midgardar.
11. Ykkur gamans dilli dans,
Dugur ef brjósti hlýnar,
Øllum saman í einum krans
Edlis systur mínar!
12. Býd eg feigin bøguna
Brosleit fljódin! ydur;
Nú er ad seigja søgnna
Sem eg hætti vidur.

---

13. Eptir rádum Raudreks þá
Reifadur svika skýlu
Auli smádur undir lá
Indíanar hvílu.
14. Eina nótt um midjann mund
Mælt er ástin lokki

Tistran hljótt á frúar fund
Framan ad sængur-stokki
15. Stokknum krýpur hetjan hjá,
Hrínga sefur tróda,
Nasa drýpur dreiri þá
Dreisir stjørnu flóda.
16. Undirklædin á sér bar
Ein um brautir sala,
(Ekki hrædast þurfti þar
Pad hann mundi kala).
17. Indíana vakna vann,
Visa blómid trúa
Blíd ad vana beiddi mann
Burtu aptur snúa.
18. Enn nær fleina Odinn hýr
Aptur stód á fætur,
Fram úr leyni þrælar þrír
Þustu í skugga nætur
19. Høndum tekinn Tistran er,
Tókst sig ei ad vara,
En Raudrekur illi fer
Undan þessum skara.
20. Hans af lidi hinir tveir
Hersforíngjar vóru.

Horfnir fridi þrælar þeir
Þegnin binda fóru
21. Kéndi ángur Tistran trúr
Titrar hjartad beggja,
Uppí sæng til frídrar frúr
Fantar manninn leggja.
22. Héldu bádum høldar þá
Hvílu dýnur vidur,
Kalla nádi kónginn á
Klækja versti smidur.
22. Inn kom sjóli', enn svikarinn
Svørin nádi bjóda:
Sjádu í bóli brúdar þinn
Budlúng! vininn góda.
23. Tistran launar þannig þér
Þína ást og hylli,
Þarad raunar þykir mér
Þeigi mikil snilli.
24. Svona' eru bædi svikul þér
Sanna' eg þad med hinum,
Hugar mædi ad því er
Okkur þínum vinum
25. Sjá þú gódi ødlíng! eins
Upplýsíng þad géfur

Rasa blód af Fjølni fleins
Farfad klædin hefur.

26\. Þessi rádin lastalig
Laungum bædi sýna,
Og ad hádi hafa þig
Heimsku fyrir þína.

27\. Vísi látast veita þý
Vina trygd og blídu;
Eg hefi grátid út af því
Opt med lyndi strídu.

28\. Mínu hægir hjarta nú;
Hugurinn æskti leingi,
Loks ad sæir sjálfur þú
Svona allt til geingi.

29\. Tiggi feldi tár um brá
Tali því upp stynur
Eg má hreldur sanna' og sjá
Søguna þína vinur!

30\. Hørmúng er ad elska þann
Innst af hjarta=rótum,
Sem ad gérir svíkja mann
Svona' i øllum hótum.

31\. Bædi' án dvala bindi hér
Børfar ljóma Grana,

Í fánga salinn færid þér
Falska svikarana.
32. Bodid strída fram svo fer,
Fylkirs útúr ranni
Drósin blída borin er
Bundin þá med manni.
33. Einginn gráta íta sér
Indíønu frída
Hún var kát, en geira grér
Gremju hafdi strída.
34. Svo í fánga settust búr
Sitt í hverju lagi;
Fóstri þángad Tistrans trúr
Talad er sig dragi.
35. Frekast naudin faungum tveim,
Falsarinn því veldur,
Nú var daudadómur þeim
Ad døglíngs rádi feldur
36. Indíana ei sér brá,
En þá dóminn heyrdi
Sødulš Grana sídug gná.
Sínum kjørum eyrdi.
37. Tistrans fóstri bøl sem ber
Bædi vildi fría;

Í leyndum bjóst ad leita sér
Lids í Asturía.
38. Sá kom dagur sveinn og drós
Sviptast áttu fjöri,
Röduls lagar rindur ljós
Vid ræsir tala kjöri.
39. Sjóli kémur; sætan þá
Svona nádi tala:
Eg mun fremur ei þér hjá
Adrar bænir fala.
40. Bæn mín ein er innileg
Þar Auduns ljóma skínur
Ad fjørtjón reyna fái eg
Fyrr enn sverda Grímur.
41. Mínu gédi ángur í
Ekkért þá eg findi;
En einsvel sedur þú med því
Þitt og Raudreks yndi.
42. Hérvid feldi tiggi tár,
Tregi hugan fyldi;
Lødurs elda kindi klár
Lofdúng kyssa vildi.
43. Þessa varnar þjódanna
Þeigi kátum hára

Gøndúl tjarnar glóðanna
Gjørdi þannig svara:
44. Spara blómann mun nú mær,
Milding! þér eg segi:
Þinn er dómur kvedja kjær
Kossa þarf eg eigi.
45. Grátinn þadan Gylfi skír
Gaungu sinni hradar;
Andar glada ømd sig býr
Aftøku til stadar.
46. Tistran leiddur út svo er,
Alma frægstur þórinn
Klædi breiddi svørt ad sér,
Samlitur var jórinn.
47. Indíana fór í fat
Farfa medur hvítum,
Líka á grana ljósum sat,
Leid svo reid med ítum.
48. Med fimm hundrud rekka réd
Raúdrekur hinn skjædi
Líka skunda ljóna bed
Lífi ad firra bædi
49. Utá skógi' í einum stad,
Ei med breytni kjæra,

Svika nógi bófinn bad
Af baki þau ad færa.
50. Indíana kraup á kné
Kvala stokkinn vidur,
Bæn ad vana byrjandi
Bar hún fram þær kvidur.
51. Talar Rínar elda eik:
"Eingla hærsti smidur!
Fyrir þínu veldi veik
Varpa eg mér nidur.
52. Þitt réttlæti þekkir best,
Þurfa ei adrir fregna,
Hvørt eg mæti fjørsins fr…
Framdra glæpa vegna.
53. Mildi og gódi Meistarinn!
Miskun slíka eg þreyi
Hugar módinn heptu minn
Helzt á þessum deigi.
54. Øndu minni fádu frid
Fadir! í nádar hendi,
Ambátt þinni ljádu lid
Lífid glød svo endi."
55. Vid Raudrek talar ræsir þá:
Réttinn vil eg sýna;

Af þér skal eg eida fá
Uppá sögu þína.

56. Guds. fyrir sakir særum vér
Sannleik þig framm bera:
Sástu nakinn sverda=grér
Í sæng hjá drottníng vera?

57. Dýrstan eidinn dárinn sór
Djöfullegur í skapi,
Sídan beidir sjóli rór
Sætan lísi tapi.

58. Dvínar ljóda þulan þá
Þessu svakki fleigi;
Rínar fróda glansa gná
Gét eg þakki eigi.

---

## Níunda Ríma.

1. Skyldi kvæda bjóda bjód
Bjódar stafa letur
Vildi flæda móda mód
Móda afa betur.

2. Vanda tekur þéttan þátt
Práin día glæda,

Banda vekur sléttan slátt
Sleigin gían kvæda.
3. Dvíni konum myrkur meins
Medur hætti góda,
Hlýni sonum aldar eins
Undir slætti ljóda.
4. Kjörum fordum þídu þá
Þegar kvádum tóna
Korum skordum híra hjá
Hita fjádum lóna.
5. Króka þrædi tóna tal
Tíminn vilja stydur.
Bóka frædi skrifad skal
Skjótast þylja ydur.

---

6. Ljódin greida einföld ord
Efnid vandar staka:
Þjódin deyda skyldi skord
Skafla handarbaka.
7. Kvída máttu vafurs vers
Vidir spánga hljódum,
Rída átta hundrud hers
Hestum þángad gódum.
8. Glamra hríngjur essum á
Eggja nidar klidur,
Hamra dýngjur þúngar þá
Þóktu ida vidur.

9. Stálin boga øldin æſt
Orkar bera ſkjæru,
Bálinn loga gulli glæſt
Grana merar hæru.
10. Skildir blika, málaſt mold,
Málmur þykir glóra,
Gildir ſtrika flata fold
Fætur kvikir jóra.
11. Gjóſti þundar yrjar úr,
Aldar ſtundi bátur
Fóſtri undan Tiſtrans trúr
Tjáiſt ſkundi kátur.
12. Sídan ſkéllir Odins á
Ognar felli biljum,
Vida hellir ſára ſjá
Søkkvaſt vellir hiljum
13 Fridan léyſti Tiſtran trúr
Tundur þórinn áa
Sídan reiſti ánaud úr
Uppá jórinn fráa.
14. Prífur ſkálma Sigtýr ſverd,
Sýniſt fridur bída,
Klýfur hjálma, manna mergd
Mundi nidur ſnída.

15. Freydir ædum blódugt bad;
Blindur hilja ljóma
Reidir skjædum ítum ad
Odins þilja blóma.
16. Fundid gétur drottníng dýr,
Dæstar mundir skékur
Sprundid metur, hana hír
Handlegg undir tekur.
17. Situr halnum armi á
Aa tundur dúfa,
Bitur falnum þordi þá
Þræla sundur kljúfa.
18. Mundu eina þjáir þá
Þundur fleina herdur,
Hrundu sveinar fláir frá,
Fundur meina verdur.
19. Spríngur hlífa gérdin grá,
Glatast lífid seggja,
Stíngur fífa brynjur blá
Bifast vífid Tveggja.
20. Raudur lítur mætan mann
Mæki íta hreinum,
Blaudur sk.... veina vann
Vildi slíta beinum.

21. Primur randa gremur géd,
Søldum fridur dvínar,
Rimur anda mjófum med
Mála kvidur sínar:

22. "Kífid stordum eggja á
Okkur rændi heidur,
Lífi fordum medan má
Meinast frændi reidur.

23. Eigi vægja mundi mér
Meigin fægir gérda,"
Sleiginn bægja flótta fer
Fleigir ragi sverda.

24. Hallar skundar feril frá
Fyrstur hundur sekur,
Fjalla mundar eptirá
Otull þundur rekur.

25. Fælinn heima byggir búr
Brúsi eyma Rína
Prælinn geyma mátti múr
Medur heima sína.

26. Tistran skadann fyrdann fann
Fóstra rádum tédum
Býst hann þadan, vísid vann
Venda bádum medur.

27. Meíngid senda harda heim,
Hollur fridur vefur,
Eingid brenda þrimla þeim
Pambar vidur géfur.
28. Skógar leita þadan þrjú,
Þrauta gleyma badi
Nóg var þreyta frídri frú
Freka sveima stadi.
29. Eggja vída ferdir fal
Fylsnis leitar madur,
Tveggja hlída skógur skal
Skrádur heita stadur.
30. Skála búa þegnar þá
Þakid stráum flétta
Bála hnúa Idun á
Inni sjá um þetta.
31. Meina skýlu kalda kved
Klæda segir Friggja,
Eina hvílu mønnum med
Munum eigi byggja.
32. Þessa stundu Tistran tér
Trygdir kénni sínar
Vessa grundu Hrugnirs hér
Hendur spenni mínar.

33. Frúna dreingur mæta má
Medur spanna sómann:
Núna leingur eigi á
Alfons svanna blómann.
34. Svarar ljóma varar vør:
Vita máttu dreingur,
Vara sóma kjæru kjör
Kvendis láttu leingur.
35. Svinnu hrannar glóda gná
Gjætir mána síkja,
Kvinnu sanna meta má
Mildíngs Spánar ríkja.
36. Stilla áttu karla kyns
Kvidar lystíng strída,
Villa máttu hvergi hins
Hrínga gistíng frída.
37. Hrundar máttu bedinn brátt
Búinn snilli þiggja,
Þundar láttu bálid blátt
Beggja milli liggja.
38. Þúngum kjørum hlída hlaut
Hrínga Gínar kjætti.
(Ungum børum þorna þrauk
Þetta sýnast mætti.)

39. Sprundi blída vísa veg
Væri svinna betri,
Mundi skrída yfir eg
Einusinni' á vetri.
40. Tistran betur þoldi þad,
Þistils bóna dínu
Víst hann getur ekki ad
Edli þjónad sínu.
41. Víkja ljóda beidum blad,
Bídi svinnir dreingir,
Ríkja góda ødlíng ad,
Angri sinnir leingi
42. Feinginn skadann merkja má
Mædu gisti núna
Einginn gladan sjóla sá
Sídan misti frúna.
43. Beitir skída Raudur réd
Rekka grand sem fædir,
Leita vída mønnum med
Marinn, landid, hædir.
44. Leingi vinnur hér ad hann,
Hugur sætti fári.
Einginn finnur mær né mann
Mæddur hætti dári.

45. Mestu hefir ríkis ráð
Rauður smánar frekur,
Bestu kéfur dygða dáð
Dreingja lánið hrekur.

46. Lagði skatta argur á
Ödlíngs bragna þúnga,
Flagði skratta mikið má
Meinguð gagna túnga.

47. Dóli sláu brøgðin býr
Brøgnum flestu skjæður,
Sjóli fáu skeytti skír
Skømmin mestu ræður

48. Bíða støku málið má,
Mærðar fræðin letur;
Smíða vøku einni á
Aðrir kvæðin betur?

49. Dvínar ljóða máttur mér,
Mínar góðar hlíði
Rínar glóða hírar hér
Hlínir ljóða-smíði.

---

# Tíunda Ríma.

1. Þótt eg vilji veikar mínar vísur bæta
Sækir heim ad sama máta
Svo þarf ekki stórt ad láta.
2. Leidist mér í ljóda smidju leingi hýra
Flýti mér því brag ad bera
Bítir snotrum ljóma kvera.
3. Ef eg sæti allan dag vid eina bøgu
Mundi betur mærdir laga
Og máské uppí suma slaga.
4. Munur er ad laga ljód í laungum flokkum
Eda þylja andar-brekku
Eina stöku' af gédi þekku.
5. Hygg eg flestum holdum þyki hægri vegur
Ljódin þegar laga føgur
Ad leika sér vid fáar bøgur.
6. Segja menn í mørgu fé sé misjafn saudur
Pad er eins um þulur ljóda
Þessar, sem vid gjørum bjóda.
7. Sannast er ad sýngur hvør med sinu nefi
Sína meiníng hvørjir hafa;
Hérum lítid vil eg skrafa.
8. Læt eg því med flýti fljóta frædid kénda,
Nenni ekki vel ad vanda,
Vantar stundum gladan anda.
9. Þetta er svo einkisvert nær ad því gjæti,
Snøggvast gjørir kappa káta
Kvæda sem ad bragir láta.

10. Skémt nær hafa skálda málin skara sveina,
Í krókunum þau sá að súna,
Fæstir um þau hirða núna
11. Þarf eg ekki þúnga vøru' í þessar skuldir
Svo ef hlýða seljur spjalda
Søgunni, skal eg áfram halda.

---

12. Raudrekr var rausnarmadur í ríki sínu,
Efdi marga ólukkuna,
Aldirnar hans søgu muna.
13. Annar lagdist sjúkur sá og sáran kvaldist,
Raudreki sem fordum fylgdi,
Þá fjør af Tistran ljúga vildi.
14. Presti sínum sannleikann hinn sjúki játti;
Klerkur sagdi kóngi þetta,
Ad kaudinn gjørdi játníng rétta.
15. Hinn var krafdur Hersfóringinn hértil svara,
Þordi' hann ekki annad géra
Enn hid sanna fram ad bera.
16. Raudur hafdi rekka keypt til rángra lyga,
Nú kom upp hin sanna saga,
Svipa mátti þrælnum raga.

17. Eptir þetta eina nóttu ødlíng dreymir:
Ad honum madur úngur kémur
Einninn þannig rædu semur:

18. "Í Tveggja hlída skóg þú skalt med skyndi draga,
Sakleysíd þar sjerdu næga,
Svanna þíns og Tistrans fræga."

19. Ræsir fór vid roda dags og Raudur slægi
Fram á skóg svo ferdir drýgi,
Forna hittu gøtu stígi.

20. Bragnar fundu loks á ládi lítinn skála,
Geingu innum gjættir sala
Gátu ad líta sængur bala

21. Parí liggur Tistran trúr hjá tródu dúka,
Blunda nádu bædi' óhrakin,
Braudur lá ámilli nakinn.

22. Raudur mælti: rád er nú ad reida brandinn,
Ádur enn vaknar upp ad standa
Áru snaudur geimir randa.

23. Sjáid þér nú sjálfir hvørnig sauruglega
Bædi sér med svikum haga,
Svo var líka' í fyrri daga.

24. Kóngur ansar: kjapti haltu kauðinn lasta!
Þeirra sje eg manndygð mesta
En merki þína lýgi versta.
25. Sjerðu ekki saklaus bæði sín á milli,
Nakinn láta fleininn falla,
Freistíngu svo varist alla?
26. Verður ertu' að værir fyrir vonsku ljóta
Látinn kvølum mestu mæta
Og mikið hørðum dauða sæta.
27. Forræðari frænda og vina fárlegastur,
Allra manna ertu verstur,
Æru, dygð, og sóma brestur.
28. Heim er best þú haldir nú með háðúng stóra,
Ef eg læt þig annars hjara,
Sem ætti þó að granda snara.
29. Tistran skal hér sofa sætt hjá sólu klæða,
Heim svo snéri herrann þjóða,
Hønum fylgdi makinn fóða.
30. Síðan kóngur bón og bréf þeim báð-
um sendi:
Þau ef vildu útlegð enda
Og aptur heim með sóma venda.
31. Tignar klæði kóngur sendi klúta rønnu,

Og sylfur vagn, þar kappar kunnu
Klára skoða lóna sunnu.
32. Bædi sig til bograrinnar búid géta,
Tistran lætur hestinn hvíta
Hófa þángad stodum íta.
32. Búist var í borginni vid bodi stóru,
Í Lárentíí kyrkju kjæra
Kémur sørfa rósin skjæra.
33. Þar skal vísid vinna eid í vænu ranni
Og þar medur sóma sanna
Sakleysid í heyrum manna.
34. Upprétt framad altarinu einart tredur;
Sveipud hvítum silkiskrúda
Svo taladi prýdin brúda:
35. "Hærsti Gud! mig hegníng láttu harda finna
Og logandi í báli brenna
Bædi ad sjónum manna og kvenna.
36. Ef eg braut vid Alfons konúng einusinni
Eda lét sig saurga svanni
Samførum med ødrum manni".
37. Brúdurin vard sem blódid raud í bádum kinnum

Frekadi þad fegurd hennar;
Fylkir tók af ástum brenna.

38. Fylkir vildi fadma' og kyssa falda lindi;
Frá sér kóngi hratt med hendi
Hún, og þannig svørum vendi:

39. Mér hefur ordid budlúng! bid á blídu þinni,
Því í huldum harma ranni
Hef eg gleimt ad klappa manni.

40. Ef ad nokkud annter þér um ástir kvenna,
Eitthvad skaltu víst til vinna,
Ef viltu mína blídu finna.

41. Tvøfalt bæta øllum áttu' og upp ad gjéfa
Skatta þá, sem Raudur refur
Af rekkum þínum kúgad hefir.

42. Tistran skaltu bæta best med blídu' og snilli,
Hrakninga, og hádúng alla,
En hatur láta nidurfalla.

43. Hefnda vil eingra óska illum Raudi,
Þó kvalir ætti leidur lída,
Láttu' hann finna tíma bída.

44. Hennar vilja hilmir fagdist hygginn lúka

Sídan nádi sáttum taka
Sólin føgur mundar jaka.

45. Tign og æru tiggi nádi Tistran sýna;
Fálátur og fjærri vana
Freyrinn þókti byrdar Grana

46. Tistran eittsinn tala nam vid tíginn hara:
Leingur hér ei vil eg vera
Vid skulum okkar skilnad géra.

47. Hef eg verid hér um stund í hilmirs ranni
Leikspil fyrir lygum manna,
Létt er þetta mál ad sanna.

48. Fýsir því ad flýta mínum ferdum hédan.
Þú munt verda því ad ráda
Þannig mælti stýrir láda.

49. Feiginn vil eg frændi! þó med flestu bæta
Anaud þína', ef unad gétur,
Allt kann nú ad falla betur.

50. Þad vill ekki þiggja hinn, en þeingill ljúfur
Kémur fram med gódar gáfur,
Gullin þing og linna rjáfur.

51. Madurinn eignast marga gripi mjøg fásjena,

Gullbílæti Indíanar
Eydir þiggur ljóma Grana.

52. Kvedur sídan kónginn frægur korda verinn;
Kéndi gramur søknud sára,
Svo ei gétur bundist tára.

53. Indíana eldraud sat, en ekki grætur
Þegar kvaddi þegninn vitur
Þreyngdi hjarta sorginn bitur.

54. Kjærlega hún kysti rekk og kvedur þannig:
Eg skal þín med ástum minnast,
Uns vid megum sídar finnast.

55. Þvíad eingan annann vin eg á í heimi,
Þó vid berum þúngan ama,
Þad fær nú ad vera sama.

56. Fardu vel og fordast allan feril meina,
Gjæfan huggi hagi þína,
Hvørninn sem ad fer um mína.

57. Grátinn skildi Grímur stáls vid Gøndul skrúda
Reynir kom á skeidir skída
Skal svo þessi Ríma bída.



## Ellefta Ríma.

1. Enn þá vil eg taka til
Tóna smáa horpu' að slá,
Vilji hylja bála bil
Bragiun sjálig hlíða á.
2. Lagið það, sem Kolbeinn kvað
Kunni hróðug forðum þjóð;
Þetta glaður ber á blað,
Bragar hljóð þó sén móð.
3. Yrki' eg Mey af ímu þey
Óðar keim með hætti þeim,
Svo bragargreyið aldrað ei
Unnar gleymist sunnu reim.
4. Á vorum tíðum vesðin fríð
Banda menn um landið enn,
Fyrir viðis hita hlíð
Hessa nenna skáldmælinn.
5. Hærst af öllum heyrast spjöll
Hins málsnara norður þar,
Gísla köllum vér um völl
Verinn rara Konráðar.
6. Honum sá eg fara frá
Fagur ljóð sem kjæta þjóð,
Greina náir gýgu slá
Af grímum Óðins teigar bjóð.
7. Jeg uni ætti, ef þennan þvætt
Þáttinn fær minn herkju blær,
Við að hætta Vana sætt
Á Viðris hræra kerinn mær.

8. Enn af því ad þessi ný
Þótti sagan prýda lag,
Donskum sný eg ordum í,
Eyk fyrir lagar stjørnu, brag.
9. Seinlegt er ad setja á kver
Sannleik þann eg lesinn fann
Því nú fer ad flýta mér
Og formálann ei leingri kann

---

10. Eyddur snild ad eigin vild
Ol eg bid á ljódaklid:
Hetjan skildi grátin gild
Grettirs skridu þrumu vid.
11. Dró á boda, glóir gnod,
Gana fór á svana kór,
Skyndi troda vindar vod,
Vakir sjór med kvaki stór.
12. Láar svønnum á var ønn,
Undir laungum stundi raung,
Þá ad sønnu hráa hrønn
Hrundi straung um lunda gaung.
13. Þjóta bønd, af blæi þønd,
Blaka støfud húna trøf,
Fljóta ønd um Ægislønd
Yfir høfin reynir køf.

14. Frakklands til í brádum bil
Bliki hrannar dika vann,
Atkér hylur ála þil,
Afreksmann á landid rann.
15. Fødurbródur fann um slód,
Fári skérian Dagóbert,
Rædur þjód og þeirri lód
Preki hertur dægur hvert.
16. Fylkir sá er frónid á
Frænda sinn bad velkominn,
Horna-sjá ad þeingli þá
Pramar linna Gánglerinn.
17. Døgling landa búinn brand
Blóma háa dóttur á,
Hét Inanda, orma sand
Oldin sá á þeirri gljá.
18. Einsog rós var dáfríd drós,
Djásnin bar hún fegurdar,
Fékk því hrós af hlinum sjós
Hripudar um lønd og mar.
19. Kóngur átti opt og þrátt
Vid enska lýdi blódugt stríd,
Reyndi mátt en svipti sátt
Sveitin stríd um þessa tíd.

20. Merkin lá við landa þá
Ljótur her, sem nálgast fer;
Sjóli þá við Tistran tjá
Tjørgu gérir frægann ver.
21. Þíß eg bið þú leggir lið,
Líka naða rjóðir blað;
Japa skriðu jálkur við,
Já því kvað; þeir fara á stað.
22. Mætast fara fylkíngar,
Fjandalið er ramaukið,
Skipað var til skothríðar,
Skélfur Sviðris konan við.
23. Spenna boga' um Víga vog
Vopnin laga á hlífum brag,
Sverðin voga ítar og
Ut að draga þá í slag.
24. Brjótár þorna þúngu horn
Þeyttu í friðarlausum nið,
Sigtýrs forna sørfa norn
Sýndist iða hljóminn við.
25. Herinn ramur reiddi gram,
Rignir óðum mannablóð.
Afram hamast enskur nam
Einn, sem stóð og feldi þjóð.

26. Daríon í víga von
Var sem ljón, ad manna sjón
Fylgdi honum sikklíngs son
Sá hét Jón og veitti tjón.
27. Auka stríd en eyda lýd
Erdir þeir á velli tveir,
Þessum kvídir þjódin fríd
Þar, og deyr um vígaleir.
28. Tistran reynir tídum flein,
Tiggi vedur áfram med,
Hjörinn hvein vid hausa bein,
Hildar vedur dymma réd.
29. Kóngur vód þar bunar blód,
Brynjurnar og hjálma skar,
Hledur þjód, því hetja gód
Hár var, skara dalneydar.
30. Einn í herinn hættir sér
Hann, og nada spannar blad,
Runnu berir blódlækir,
Búkar hladast velli ad.
31. Daríon sá ad sveitir slá
Sjóli kann, er frægdum ann,
Kauda þá hann kallar á,
Ad króa þann hinn hrausta mann.

32. Að kóngi herinn herða fer,
Hundruð þrjú hann sækja nú,
Sig hann ver, svo ágjætt er
Af manngrúa hreysti sú.
33. Daríon reynir meður mein
Mæki sinn við konúnginn,
Høggur fleini' á bríngubein,
Bugar stinnan holundin.
34. Féll í valinn elli=alinn,
Æða græðir klæðir svæði,
Svellar kvalir hrella halinn,
Hræðist næði', en glæðist mæði.
35. Tistran sá að fallinn frá
Fylkir er, en riðlast her,
Skyldi þá sér fleigði frá
Fata Herjans Sifjar ver.
36. Sínu' í hendi hetjan kénd
Hvørja þá nam sverði ná,
Þjóð var send og báli brend -
Brúna, þá, svo hníga má.
37. Skérðir lýði, herðir hríð
Hánga þá með strángа þrá,
Gérðir sníða sverðin síð
Sánga náir vángi á.

38. Herjans glossa hita foss
Hlinur, snari tvenna bar,
Blódid fossar heitt um hnoss
Harbardar úr ædum þar.
39. Dreingir þráir áttu á
Audunskonu dauda von;
Medur bláan mímúng þá
Mætir honum Darion.
40. Tistran hønd hans risti rønd,
Rekur rakinn út um bak
Sára vønd, um vígastrønd
Veitti hraki daudatak.
41. Hyggur Jón í Hildar tón
Hefndir á, og stefndi þá
Móti bóna Midjúngs þjón,
Medur Þráins logann blá.
42. Tistran strauk á hófa hauk
Honum ad og reiddi nad;
Hausinn fauk, en lífi lauk
Linna stada Týr vid þad.
43. Víkings sídánn lamdi líd
Loga mírar Hánga-týr;
Skeinur svída, sveitin stríd
Sídan flýr á ránga kýr.

44. Sigri hrósar Herjan sjós
Hripudar og slídrar þar
Blóds vid ósa eggjad ljós
Arma fara Gunnladar.
45. Heim var borinn blóds úr for
Budlúng sá í valnum lá,
Alma Norar eggja spor
Ödlíngs háa skoda þá.
46. Bragníng sjer ad banvæn er
Brjósti á hans skeina slá,
Tala fer vid Tistran hér
Tignar hái jøfur sá:
47. Þad nú finn eg frændi minn!
Fjørid gérir eydast mér,
Einginn svinnur arfþeiginn
Umsjá ber um landid hér.
48. Því skal bjóda þorna-rjód
Þetta lád og Kraka-sád,
Einnig rjóda ósa slód
Eisu sjáda medur dád.
49. Bodin þessi þiggja hress
Pundur hrannar loga vann,
Jord ó p r e s s u d japa ness
Játar þann ad eiga mann.

50. Krýndur var til konúngs þar
Kjalar skara hnipular,
Valdið bar um váng og mar
En veikur hari burtsofnar.
51. Eptir þann svo erfi vann
Öldin drekka', er bana fékk;
Brúdkaups annad ølid fann
Ædri smekk af snót og rekk.
52. Spenna skálir skérpist sál,
Skímu marar hjálmberar
Staupa ál fyrir utan mál
Innum varir heltu þar.
53. Nidur skola bjór í bol,
Budlúng ofur selja lof,
Fylla þola háls og hol,
Hausa dofa fá um of.
54. Eptir þad við stjórn og stad
Stillir nádi taka um lád,
Gnægtir hladast aura ad,
Eikin þráda sýnir dád.
55. Unni ad sønnu hrannar, hrønn,
Hræfar elda um dag og kveld,
Er þó bønnud elska sønn,
Opt því veldur lundinn hreld.

56. Dagóbert med blóma snert
Brunna sólar Skøgul ól,
Honum vert er hrósid gért
Um héra stól og flidru ból.
57. Frá þeim grana flýg eg svan
Fyrst þar mér um tala ber,
Indíana ágjæt Man
Øldin sjer med barni fer.
58. Alfons kjætist einsog mæt
Arma snjáa gérdur þá;
Raudrek bætist sorg ósæt,
Svikin þráu stundar á.
59. Veit þad hann ef vænan mann
Í verøld fædir sørfa hædin,
Ekki glanninn erfa kann
Ødlíngs svædi og fleiri gjædin.
60. Leitst í tíma lensu Grím
Lasta fjád ad brugga rád.
Hér á rímu verdur vím
Wirdi sáda fenju lád.

---

# Tólfta Ríma.

1. Þó ad snjóar ekru á
Auka taki freda,
Skíman grímu fælir frá,
Förum vér ad kveda.
2. Raudreks dauda erfi á,
Yggjar hellum skálir;
Ama framan af því fá
Eingar kristnar sálir.
3. Lát nær kátir heyrid hans,
Held eg verdi svarid,
Ad á stad til ára ranns
Ondin hafi farid.
4. Satt og rétt eg meina mér
A minnstu þarf ad standa,
Hvada stadi geira grér
Gisti firrtur anda.
5. Dygda og lygda dæmin ný
Sem dreingjum sagan veitir
Raudrek daudum þjód má því
Þákka' ad nokkru leiti.
6. Tistran lýsti dygdin dýr
Og dúfu orma stóla
Af því skrafi, er æru rír
Aulinn laug ad sjóla.
7. Utlegd, sút og öll sú þrá,
Er áttu þrátt ad lída,

Betraſt lét þau hjörtn há
Hætt ſem máttu ſtríða.
8. Koſti og leſti landsfólkið
Lærði að þekkja betur,
Nær með kjærum ſannleiks ſið
Sagan kom í letur.
9. Enn þótt menn hér kénni kalt
Kvöl og böl ſem rata,
Það er maður! eflauſt allt
Einhvörjum til bata.
10. Hann ſem vann til meina meſt
Máſké óviljandi
Gjöri hér að gagni fleſt
Góðri þjóð og landi.
11. Meiri' og fleiri máſké líkn
Mætti Rauði ſinna,
En aldrei halda ſvika ſýkn
Samt þann vil eg ſkinna.
2. Að dæma ſlæma vörumſt vér
Vóru eptir gédi,
Manſaung ſtanſa hlýt eg hér
Svo Háttinn ſtuttan kvedi.

---

13. Þar mig bar í þögn og ſtans,
Því ſkal nú að víkja:
Kaudinn Rauður linna lands
Lilju bjóſt að ſvíkja

14. Finnur slinni falskur nú
Fljóðið það með pretti,
Þá sem á að þjóna frú,
Þegar burði létti.
15. Keypti sneiptur snót, með ráð,
Snilli allri firða,
Barn og tjarnar blóma láð
Bæði í fæðíng myrða.
16. Enn sem kénnir drottníng dýr
Dag þann á að fæða,
Kvinnan finnur frama rír
Fótaveiki skjæða.
17. Mátti' ei játtur svarkur sá
Sól orms-stóla þjóna;
Mey nam Freya, fæða þá
Fagrà, dagar lóna.
18. Sjóli stóli sælu á
Sanna finnur gleði,
Líka ríka gullhríngs gná
Gleymir ama' á beði.
19. Var hið rara vísirs jóð
Vatni døggð með heiti
Hinnar svinnu er syrgði þjóð
Svo bað kóngur teiti.

20. Tródu rjóda Tormónam
Tíru mírar kalla,
Blída skrýda budlúng nam
Blómanum góma fjalla.
21. Býr óríra veitslu vid
Vísir ósinn horna,
Veiga teiga tekur lid
Tæmir gríma forna.
22. Kér fram ber þad sveitin svinn
Er sjóli tekur vidur:
Brast med hasti Vikarinn,
En bjórinn steyptist nidur.
23. A einum beina vargi vann
Vínid lenda þverum,
Mein nam reyna heljar hann,
Hollt var ekki' í kérum.
24. Sveitin leità ad Kraudrek réd,
Ræsir baud svo mætur
Fá ei knáir fólann sjed,
Fram svo leid til nætur.
25. Hjá sinni kvinnu síd þá nótt
Sat hinn vitri gramur,
Einn med hreinni skjøldúng skjótt
Skák nam leika tamur.

26. Veit ei teitur fylkir fyrr
Og fljóð er gledi nýtur,
J einu reynir opna dyr
Einn, sem hurdu brýtur.
27. Blódugan ód med bæsíng sá
Beran sér í høndum,
Raudrek kaudaun þeingill þá,
Pekkti og rikkti brøndum.
28. Lidid idar inní rann
A sem hrópar gramur;
Feldi ad veldi falsarann
Fjøldinn hølda ramur.
29. Var fyrir dyrum vaktarinn
Vopni lagdur gégnum,
Annar fann sér fylsni hinn
Fyrir þræli megnum.
30. J sængur gánga sjóla rann
Sveitir og leita í hvílu,
Fundu unda myrdtan mann
Mordíngjans af pílu.
31. Sjá menn þá hans svik óríng
J svip þad opinbera,
Med þad rédi medkénníng
Mannskadarinn géra.

32. Sannleik vann að segja frá
Svo nam kóngur beiða,
Þá Tistran fýsti og tvinnagná
Trygdum svikin deyða.
34. Slík eg líka vélin vann,
Vondur náði játa,
Blekti' eg þektann birlarann
Í bikarinn eitur láta.
35. Kvinnu hinni er átti ein
Ödlíngs brúði þjóna,
Baud eg dauða' að brugga mein
Birtu fyrir lóna.
36. Þá eg sá að þessi ráð
Þeigi máttu duga,
Vildi' eg gildur drygja dáð
Og døglíng yfirbuga.
37. Fann eg í ranni ødlíngs einn
Uppí hvílu liggja
Géngnum þegnin færdist fleinn,
Fallinn meinti' eg tiggja.
38. Vildi' eg Hildi hrínga þá
Hitta kóngsins blíða,
Og kátur láta kjæru fá
Kosti þessa stríða.

39. Ad med nadi barn og brúd
Bædi deyda vildi,
Eda med oss audgrund prúd
Til ekta gánga skildi.
40. Þegar eg í ønnum snar,
Inn kom nú ad vísi
Sá eg þá ad sjóli var
Sjálfur enn á lísi.
41. Brá mér þá í brúna lád,
Bót svo fagna eingri,
Er nú hér á ydar nád,
Ekki' er sagan leingri.
42. Reidur greidir sjóli svar:
Svikari þú mátt trúa,
Hér skal þér til hørmúngar
Helfør versta búa.
43. Sídan hýda úr slíkum fól,
Freyrar linna engja,
Nakinn taka og med ól
Allan skrokkinn fleingja.
44. Þraung og straung var meinsemd manns,
Mestar kvalir hlýtur,
Taungum laungum holdid hans
Her af beinum slítur

45. Steinum beinin mørdu med,
Mørg vóru písla undur,
Veina og kveina raumur réd,
Rifinn kvikur sundur.
46. Svona ad vonum æfin ill
Endti kaudans raga,
Harmi arman hvør sem vill,
Hans er búin saga.
47. Þræl ófælum fer eg frá,
Fargad høfum dóla;
Um Tistran líst mér tala þá,
Týginn Frakklands fjóla.
48. Hann og svanni sátu' í ró,
Sér þó lítt hann uni,
Kvídi' og stríd í brjósti bjó,
Brúdar saknar muni.
49. Opt nam hroptur ála báls
Indíønu rjóda,
Í svefni nefna, enn firrtist fjáls
Fylkir klæda tróda.
50. Um daga fagur sat í sal
Sér til hugar kjæti,
Kysti listar kvenna val
Klára í gullbílæti.

51. Hans þá glansa flæðar fríð,
Fékk það brekka skynja,
Lundin mundi stolt og stríð
Við stillir spillast kinja.
52. Fátt var þrátt með frú og gram,
Féll þar heill af stóli,
Má ei sá við Inandam
Ástir festa sjóli.
53. Heima beimur undi ei,
Utum brautir skóga
Á arma Farmar-fryggjar mey
Ferðum gérði lóga.
54. Ríður fríður eittsinn út,
Einga hafði sveina,
Finnur innan sára sút
Sendir tíðum fleina.
55. Renna nenna tiggja til
Tíu skógræníngjar,
Reiða breiðan Auðuns il,
Illir þollar hrínga.
56. Sjóli fólum huga hreinn
Hrogginn snøggu greiddi,
Feldi að veldi átta einn,
Æðum blóðið freyddi.

51. Einn óseinn um axlarbein
Ödlíng sári mæddi,
Undin sundur opin gein,
Ekki hótid blæddi.
52. Flýdu sídan fantar tveir
Frái á skógarstigum,
Fridur rídur létt um leir
Lofdúng heim frá vígum.
53. Ræda kvæda eydist ein,
Endar hendíng Ríma,
Lædíngs svæda hita hrein
Hildi seld í tíma.

---

## Þettánda Ríma.

1. Fala mun ei Odins öl,
Enn þótt nenni kvædi smída,
Ala hjá mér áttu dvöl
Elda kéldu lofnin frída!
2. Angurvær eg svona syng,
Síst mér litst á efnid betur,
Spángatýr med rád óríng
Ranna launad þulu gétur.
3. Því eg sjálfur þann tilbjó,
Þennan kénna eingir slaginn,

Níhendu má nefna þó
Nokkud þokkalega braginn.
4. Bid eg hvorn sem brag minn vid
Beita leitast kvæda hljódum,
Snidugmæltan leggja lid,
Svo líka píknm mætti rjódum.
5. Fenru handar hjálmberinn,
Hér sem géri flytja bragi,
Kénna mundi sveit um sinn
Med sínu sinn' ad kveda lagi.
6. Því eg honnm helgad fæ,
Hér og gjorvoll þessi kvædi,
Nýan brag sem lýdum ljæ,
Lyndis yndi haps þau glædi.
7. Slódun kvad eg leiagi ljód
Loga voga' á fyrri dognm,
Módn skal nú mána bjód
Metin letra þátt af sognm.
8. Vildi' eg mættu vessin þuld
Vinna svinng þóknnn hugar,
Snildarmennis medan skuld
Mitt ei styttir líf og bugar.
9. Læt eg sídan ljóda rit
Letur metid sogu þylja,
Kjæti=litill fram þad flyt
Fljódum gódum þó til vilja.

---

10. Ljóða fyrri lestur beið,
Latur gat ei valdið penna:
Blóðug=hófa heimáleið
Hvatur skati lætur renna.
11. Sárið kóngur sem að bar
Sýnir sínu læknuronum,
Fárið búið þókti þar
Pundum sunda ljóma honum.
12. Eitrud var með illan lit
Æði hræðilega skeinan,
Sveitir landsins vantar vit,
Verðung sverða að græða hreinann.
13. Þvíngaður í sína sáng
Sagður lagðist hyrðir klæða,
Slíngir menta menn um váng
Máttu sáttan ekki græða.
14. Eitrið bólgna og blána lét
Búk, svo sjúkum einatt hnignar,
Sveit í landi góðan grét,
Gjætir sætis hærstu tignar.
15. Inanda hans ekta kvon
Ekki þekkan lét sem sæi,
Hinir báru veika von,
Valinn talar sjóli frægi.

16. Kalli inní háa höll
Híngað slíngan fóstra bragnar;
Lallar sá um víðan völl,
Vísir rís og tók til sagnar:
17. Þér eg treysti vinur vor!
Sem værar æru trygðir lánar,
Héra, sjós um síla for
Að synda' í vindi' að landi Spánar.
18. Tíu skaltu ferjur fá,
Forni stjörnu þángað voga,
Día skulu eldar á
Öllum fjöllum rånga loga.
19. Indíanar fáðu fund,
Frá mér tjá þú skilaboðin,
Að linda vilji göfug grund
Gá að lá, þar bíði gnoðin.
20. Sjúkdómsefnin seg þú eyk
Sunda tundurs, kappinn frái!
Mjúkhendt svo vor meininn veik
Mæta sætan bæta nái.
21. Alfons kóngur eins eg vil
Ylgju fylgi rósu ljósa,
Valinkunnur hlés á hil,
Hönum svona kjós þú glósa:

22. Í naudum mínum bædi' eg bid,
Brúdi og prúdan kóng mig finna;
Daudans ella ofbeldid
Æfi svæfir daga minna.
23. Ef sterkur sjóli' og silkibjørk
Sindir vinda yfir bedur,
Merkja skaltu ára ørk
Itur=hvítum fløggum medur.
24. Bjørt ef ei á borda=hjørt
Brúdur prúda fylgir ydur,
Svørtum fløggum fleyid hvørt
Falda skjalda áttu vidur,
25. Vil eg þá med muna mál,
Medan sjed fæ byrni flóda,
Skila minni særdu sál
Sólar stóla kóngi góda.
26. Fóstri Tistrans feginn tédst
Fara hara eptir bodum,
Bjóst hann nú med faunginu flest
Framad þramma nádi gnodum.
27. Tíu skeidir setti á sjá,
Sídan vídi framá strýkur,
Skýa vargur þúngur þá,
Þandi banda=hunda slíkur.

28. Reidinn þaut en undir ód
Udur síd um spúdi frodum,
Skeidin flaut og skundar mód,
Skarir larast fara bodum.
29. Brúna þúnga báran hrín,
Braka taka leingi reingur,
Í snúnum bøndum blærinn hvín,
Blakar vakur engis streingur.
30. Skélla bláir bordin øll
Bodar hrodalegir þadra,
Vella sjáar frodufoll
Framúr gammi reida fjadra.
31. Rán um velti vedra tón,
Í vodir trodást bilja mergdir,
Í Spánarveldi lóna ljón,
Á lagi hægir sínar ferdir.
32. Atkér fá ad verda vot,
Varar snarast þar í mýri,
Ratar heim á høfudslot
Hari' er rara skara stýrir.
33. Fundid sorfa fær hann grund,
Flytur vitur rædu móda,
Stundi þúngann, sturlast lund,
Stadar nada rósin góda.

34. Alfons kóngur um það bil
Og hans loga tjarnar brúin
Ovala laust að djúpum hil
Draga, fagurlega búin.
35. Tormóna hin væna var
Vetra metin átta' og tveggja,
Borinn framá báru már
Blíð, að prýða hópinn seggja.
36. Indíana út á grund
Ægis dæilega geingur,
Vindast segl á voga hund,
Vara þar er leystur streingur.
37. Utá runnu ránar fljót
Ránga lángir gullin faxar,
Prútin bylgja lima-ljót
A landa bandi tók að vaxa.
38. Hvinu bønd, en drýgir dun
Drøfn á støfnum, braka reingur,
Ginu sjáa hárra hrun,
Hefríng sefur eigi leingur.
39. Skútu dýrin skunda nýt
Skjær því blærinn ferjur leiddi;
Flutu' um húna fløggin hvít,
Framur gramur svo sem beiddi.

40. Sína haldi leid um lón
Lagar fagurbúnir hundar;
Mínum vík eg mærdar tón
Ad mæríng kjærum Frakkagrundar.
41. Stillir lá þar ánaud øll
Ærukjærum þýslir flytur,
Snilliieg í hárri høll
Hjá þeim gnáin bauga situr.
42. Dagóbert med audar eyk
Ungur þrúnginn vaktar Fødur,
Spakur hafdi' um húsid kreik,
Horfir sørfatýr á lødur.
43. Skeidir fær hann fødurs sjed,
Færast nær í gégnum ljóra,
Heidarlegum hýrnar géd,
Hér svo tér vid ríkja stjóra.
44. Fadir minn! nú fæ eg sjed
Flota snotran þinna gnoda;
Gladnar Tistran, gat svo téd
Gløggur: fløggin áttu' ad skoda.
45. Skrafar sveinninn hýr: um høf
Hindur rindar banda sínar
Hafa fløggin hvít sem trøf,
Í hafnir stafnar mæna þínar.

46. Gladur kóngur verdur vid,
Veiki feykir grýdar kjæla,
Hradur rís vid hægindid
Hann og þaunig tók ad mæla:
47. Tregi brjósti fløgtir frá,
Fjørid gjørir hrekja baua,
Feiginn þig ek fæ ad sjá
Fljódid góda Indíana!
48. Hjartanlega! vel þú vert
Væn í mína komin sali,
Bjarta mærin bøli skért
Blessud hress hér vid oss tali.
49. Lina finn eg flestøll mein,
Findi' eg yndislega vísid,
Vina mín! í verøld ein
Veikum eykur þú mér lísid.
50. Voldugur kóngur vasin snild
Vann í ranni' ad tala svona,
Poldi eigi þykkju fryld
Þessi hressu ord hans kona.
51. Hastar sú á sveininn bist,
Segir (eigi kjætast hjørtu):
Rastar hind í hafnar vist
Hefir án efa fløggin svørtu.

52. Þú mátt betur þessa gá,
Þannig vann, að tala svanni,
Frúinn hastar úngling á,
Að hann það með henni sanni.
53. Þetta héldt nú sjóli satt,
Sárum tárum bólgnar hugur,
Nettur misti gédið glatt,
Galar talið sárnaudugur:
54. "Kjæra frú! sem blóman ber,
Og bót mér fljótri þverneitaði,
Nær var eg svo þrjótskur þér,
Þetta rétt að verðskuldaði?
55. O minn bróðir Alfons! þú
Ei mér hneigir neinar bjargir,
Bjó eg þó hjá þér með trú,
Það án skaða vita margir.
56. Undir þig eg lagði lønd,
Líka ríkið varði skaða,
Sunda þarmeð sókti' á ønd
Sól ormsbóla þráláfaða.
57. Nú er einginn yðar sá,
Að einum reyni líkna hrelldum,
Snúa allir fángi frá
Følum, kvølum ofurseldum

58. Skin hégóma heims er lán,
Hvad má þad í raunum stydja?
Vina skal eg allra án,
Einan hreinan Drottinn bidja.
59. Enda munu mædu grønd
Mín og dvína sóttin skjæda,
Sendi' eg þér nú særda ønd
Signadur tignar kóngur hæda!"
60. Talad endar milding mál,
Med þad rédi hel ad streyma,
Falin hendi fødurs sál
Fló med ró í sælli heima.
61. Indíana um þá stund,
Á hins dána bana tíma,
Myndug gékk í mænis hund,
Med þad kvedin endar ríma.
62. Bidi þannig lesin ljódin,
Lagi braginn vinir kvæda;
Blídi svaninn hródrar hljódin
Hyrdi vird af þeli gjæda.

---

# Fjórtánda Ríma.

1. Af glaumi ida glugga troll
Garpa megin hljóda,
Kvedur vid í heyrnar holl
Harpa fleigin ljóda.
2. Gudin uni gíu slátt
Greina stór á þíngum.
Fellid dunar hola hátt
Helgad Þórnesíngum.
3. Vilji letrin vinleg sjá
Vatns eimyrju sólin,
Sögu-tetrid enda á
Aduremm byrja Jólin.
4. Vínid brenda á bikar hlær,
Brosir kvæda galdur,
Þegar í hendur hródur fær
Helgra fræda Baldur.
5. Finni yndi alþjálfar
Ods vid víriun gjörfa,
Vafurs rindur valskjálfar
Og vera týrinn sorfa.
6. Mál er ad hepta rímna rít,
Rétt því lýsa trúum,
Minn ellefta flokk nú flyt
Foldar Ísa búum.
7. Hér nær ól í herkju gust
Hródrar vinnu klára,
Þá vóru Jólin þrítugust
Þessi minna ára.

8. Vakti Rósa ljóða lyst
Línast raunir fóru,
Þá var drósin kjærsta kyst;
Kvæða laun það vóru.
9. Hafa bögur hansinn þreytt,
Hér um finu eg sanninn,
Því er dögum illa eydt
Æsku minnar þanninn.
10. Samt skal kveða huga-hress,
Og hróðrar stafa letur
Einatt meðan mig til þess
Meidma gjafi hvetur.
11. Verum hrika Viðsvalar
Vakurs því á kérum
Vita bikar veitslunnar
Vana og Día berum.
12. Mausaungs vík eg fræði frá
Fljóðs fyrir stjornu runninn,
Svo upp lík eg sögu skrá,
Senn er bjorninn unninn!

---

13. Þar eg fyrr um þuldi ljóð,
Þóktu vana bögur:
Hallar dyrum innaf óð
Indíana sögur.
14. Alfons sjóli fylgdi frú
Fram um hreina vega,

Frétti sólin sorfa nú
Søguna greinilega.
15. Daprast føgur, hyggju hlé,
Harmar þráir reira;
Eins tilløgur Inande
Audþøll náir heyra.
16. Framanad tredur drottníng djørf
Dúfa japa sala,
Ad létta gédi þókti þørf,
Þúng í skapi talar:
17. "Vei Inanda veri þér
Vil eg heit um bydja
Hvar um land og flædi fer,
Forsmád eitur=gydja!
18. Medan heima dvøl ei dvín,
Dafni vonir hardar,
Aldrei gleymist íllska þín
Øllum sonum jardar.
19. Vei Inanda veri þér!
Vil eg grand þig hreki,
Þinn hefir andann illa hér
Æst nástranda dreki.
20. Og þú hefir afmánin!
Anda ber því hljódan,

Myrdt án efa maka þinn
Meir enn þér ofgódan.

21. Vei Inanda veri þér!
Vømm þig mesta køllum,
Rænt þú landi hefir hér
Hilmi bestan øllum.

22. Lardsins sýnir þjódum þrá
Par med styrda og versta,
Barni þínu fjandleg frá
Fødurinn myrdir besta,

23. O þú púkans apaspil!
Øll þad merkin sanna,
Ykkar brúka barnid til
Bana verkfæranna.

24. Vei Inanda veri þér!
Vari neydin þanninn,
Sjálf þér grandid bitrast ber,
Bestan deydir manninn.

25. Ognar þetta ekki þér,
Er eg seigi og tjái,
Þín margfléttud hádúng hér
Hjartad eigi slái.

26. Ad þér þjaki hormúng hørd,
Eg held þig mest til vinna,

Eingan maka á allri jørd
Áttu verſta kvinna!
27. Þín ſvo lundin þeinkti treg,
Þrjótſku fólid laka!
Ad frá þér mundi ætla eg
Áſtir ſjóla' ad taka.
28. Þá í huga þad var mér,
Þrautir veilar ſefa
Og óverduga ambátt! þér
Ødlíng heilan géfa."
29. Hérvid þrútin þagna bjóſt
Þráda ſitin hjarta,
Lamdi ſútin blódugt brjóſt
Bólgid titrar hjarta.
30. Tárin fleldi fyrſtu þá
Fór ad ſprundi þreyngja,
Allir héldu hrínga gná
Harmar mundu ſpreingja.
31. Hárma vidur kvalir kraup
Kormtin bauga ſáru,
Hjartad nidur dapra dra up
Drukknudu' augu' í tárum.
32. Mær Inanda miſti ord,
Meinin þreyngja betur,

Huglar banda hita stord
Huggad einginn gétur,
33. Tárin flódu um tvinna stig
Trega vegna hreggja,
Beiddi fljódid sjóla sig
Sverdi gégnum leggja.
34. Indíana Alfons til
Arka grundu krefur,
Hjálma grana hringa bil
Hálsinn mundum vefur.
35. Þetta segir þúngbúin:
Þig lát eigi pína
Eg mun deya, af því finn
Andar megin dvína.
36. Eptir Tistran audadan,
Öldrud valda sárin,
Leingi víst ei lifa kann,
Leggst því kaldur nárinn.
37. Alfons kjæri! fyrr í frid
Feigd mig náir þreyta,
Þig um tvær eg bænir bid,
Sem búdlúng má ei neita.
38. Tistrans nidja' og Tormónam,
Týnist harma kvædi,

Vil eg bidja góðan gram,
Að gifta saman bædi.
39. Heims þá vistum hér eg lýk,
Hugan lán það gleður,
Í Tistrans kistu lát mitt lík,
Liggja dánum meður.
40. Þessu blíður hilmir hét
Hennar vilja' að líka,
Kysti fríð með klappi' og grét
Kónginn þilja dúka.
41. Hilmir fann sig harma slá,
Hjartað án var gleði,
Tróð nú svanni tiggja frá,
Að Tistrans dánar beði.
42. Svo við tiggja talar ey
Trúføst innis linna,
Þig lát hryggja Alfons ei,
Andlát kvinnu þinnar.
43. Ofan á líkið lagði sig
Loftin kvala banni,
Auðarbríkin ástúðleg
Og svo talar þanninn:
44. "Kaldan Ná eg kyssi þig,
Kann ei finna trega,

Þú skalt fá að faðma mig
Fast og innilega.
45. Hjá þér leingi' í værð eg verð,
Varir snilli beggja,
Nú skal einginn eggjað sverð
Okkar milli leggja.
46. Værðin hylji harma bað
Og hrygðar stigi þúnga,
Hér má skilja okkur að
Eingin lygi-túnga."
47. Lagði hönd um háls á ná,
Hann og þrúngin kyssti
Hún, en önd í einu þá,
Angur-sprúngin misti.
48. Alfons grætur agndofa,
Aðrir standa hissa,
Illa lætur Inanda,
Allt forstönd nam missa.
49. Flestur lýða flokkur grét
Fróna mistan stjóra,
Síðan smíða sjóli lét
Silfur-kistu stóra.
50. Daginn eptir beggja blund,
Er bygðum undu háu,

Furdu hrepti lýda lund,
A líkum undur sáu.
51. Brjósti hans og hennar frá,
Høldar vænir frétta,
Med ljósum glansa liljur þá
Litar-grænar spretta.
52. Rót í hjarta høfdu þær,
Hvørugu ama búa,
Liljur bjartar taldar tvær
Toppum saman snúa.
53. Þetta undur sem nú sá
Sveitin fridi borna,
Ymsir grunda' og eignad fá
Ástar midi forna.
54. Þeim til æru vitum vær
Virdíng kjænir smída,
Liljur færa' í flaggi tvær
Franskir grænar sídan.
55. Líkin frømu fróni á
Freyrar nýtir dørfa,
Í kistu sømu settu þá,
Af silfri hvítu gjørfa.
56. Hún Inanda heyrist skrád,
Hugur tepti fridinn,

Misti anda meinum þjáð,
Mánuð eptir liðinn.
57. Tólf var ára Tistrans son
Tiggi' og því má letra,
Átti klára ekta kvon,
Unga tíu vetra.
58. Einsog ljós á olíu kveikt
Ungu hjónin glansa,
Sjóli og drós með vald óveikt,
Vafinn lóna kransa.
59. Aldinn siglir Alfons heim
Ára fornum nøkkva,
Siðbrýn ygglir sig að beim,
Sjáfar-nornin døkkva.
60. Ødling kéndi andarlát
Árum síðar tveimur;
Svona endar sæld og stát,
Sem frambýður heimur.

---

61. Søgunar enda svo eg næ,
Sviðrir guðá rúna
Minn í hendur fundim fæ
Fjallgeigudar núna.

62. Æruverdum velfródum
Vafurs hlini tjarnar
Játa gérdi jeg ljódum
Jóhann syni Bjarnar.
63. Helgfellínga hann er kjær
Helgra [illegible] bjódur,
Lof=minni [illegible] landid fær,
Ad lærdum græda fródur.
64. Raustin ljóda réttir mér,
Rímur á enda kvedum,
Sá til góda haldi hér,
Er hródur senda rédum.
65. Kénnir þjódin kvæda smid,
Kéfur ei snilli vora,
Snótar ódins snøru vid
Snæfells milli og stora.
66. Sendast ljóda steinn styrd,
Stordar = svella børnum,
Hending móda bilar byrgd,
Blindar hella tjørnum.

---

